4. Þá skal minn aldrej fótur fá, ferli öngdanna skeikad á; eg skal þá bædi ár og síd, í minni reiknings hafa tíd; þá skal eg Gud minn! þacka þér; þá, sé velkominn daudinn mér.

## No. 129.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Nú má ej framar nærsta blind, naudbeygja mig og þrælka synd; einn Gud mér ætíd rádir, eg því tilheyri allur þér, í skírninni þau kjörin hér, Fadir! af þér eg þádi, útgjördum hafna hét eg þá, hédanaf vil eg lof þér tjá, og hlýd af öllum mætti; viljan þú, Drottinn! sjálfur sér, en synd útrýma eg dádlaus er, nema þín nád þad bætti.

2. Eg skal því daga alla þig, ákalla Gud! sem styrkir mig, veikann og vilja einlægann; réttú mér þína hjálpar-hond, hardt þá vid syndum spornar önd, send anda nádar nægan; þad láttú, gódi Gud! mig fá, grátbænir minar heyr þú á, líknsemd þín lid mér veiti, og í því stránga stridi megn, ad standa lockun synda gégn, eg svo Þeim aldrej skeyti.

No.

## No. 130.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Vér bidjum þig, o Jesú Krist! í vor hjørtu vel innrætist, þín kroptug keñing hreina; vér játum synd og veikleik vorn, viljum þó gjarnan vera þín børn, og þócknast þér alleina. Send ofs nú náð og sanna ást, svo hjørtun megi uppfyllast, med trú og kjærleik klárum, lastvarir svo ad lifum hér, líka deyum ad erfum vér, frid med Frelsara vorum.

## No. 131.

Lagid: A Gud alleina.

O Gud alvaldi! øll nafn og vald þitt hátt, um allar aldir, audmjúkt vegsamar þrátt, andafjøld ædsta; um eilífd svo sem nú, eins fyrir smærsta, umh[illegible] ja þín er trú, og því allra stærsta, er skopst og gjørdir þú.

2. Ljósid framleiddi, og líf þitt guddóms ord, ord myrkrum eyddi, ord skóp himin og jord; ord þitt upplýsir, alla, sem trúa þér, veittú þad vísi, á veg farsældar mér, hlýdinn hér svo prísi, Herra Gud! þig, sem ber.

3. Einn ædsti kraptur, þinn ollu helð-ur vid, er ádur skaptir, sitt áqvardada mid, vís, helgur, vægur, Vera fullkomin mest, án enda frægur, ertú, þér líkt ej sjest, eiñ Gud ollu nægur, sem ollu stjórnar best.

4. Styrk mig ad standa, stignnum Jesú á, og verk mín vanda, verdur eg gjorist þá, ímind ad bera, o Drottinn! þína hér; lát lofgjørd vera, lífid mitt gjørvallt þér, uns þig, ædsti Herra! um ejlífd prísa fer.

## No. 132.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

Vil eg, minn Gud! á valdid þitt, viljañ og rád mitt géfa; en, æ! þú sjer van-megnid mitt, mátt þinn eg síst þó efa; hjálpa þú mér og helga best, mitt hjarta, rót ad ná'ej fest, synd né til glæpa ginni, veikur lítt standast vid eg má, vkunur hún einatt sigur á, byrjadri betrun minni.

2. Þú, Jesús! kénndir, qvaldist, dóst, qvittadir brotin manna; ad þú fyrir mig leidst er ljóst, laungun þad veki sañа, ferli þínum ad fylgja hér, framferdi þitt sé regla mér, eg svo lífs skeid útendi, med heill og nái marki því, mín farsæld sem er fólginn í, og hnoss mér verd'i hendi.

3. Æ!

3. Æ! þángað, sem að engin tár, augun væta, mitt sñi, og eptirlángan ætíð stár, o! þau friðar heimkynni! hvar æ er gledin æsinlig, eg fæ þar grant að skoda þig, Guð! hvors eg gjarnan leita; o þañ frábæra frelsis dag! fullsælu til þá rauna hag, á síðan um skal breyta.

## No. 133.

Lagið: O Drottinn allsvaldandi!

Guð minn! hvørs gjæðsku stóra, í gjørðum øllum líta má, heimar og himin-kórar, henni lof um ejlífð tjá; hvað sem er, og eg kénni, eða mér, hug' um renni, lýsir þér, lifandi Guð! og henni.

2. J sañleiks orði mæta, eg veit sælu heitna mér, trúlega'ef gjøri gæta, Guð! þíns vilja'og hlýðnast þér; kunn'eg fá, kórón'og viña, kjør þau há, allt er miña, æðst hvað má, í verølldu finna.

3. Hjálpa mér, Herra'! að gánga, sem hejlagt orð þitt kénna vann, af réttri gøtu'á ránga, ráfa' eg añars villtur kañ; en eg þér, ætíð treysti, opt mig hér, náð þín reisti, mót syndum mér, sendi styrk og hreysti.

4. Synda-lyst allri eyda, adstod, Drottinn! veittu mér; þinn Anda lát mig leida, svo lif'eg grandvar eins og ber, dygdar á, adal-vegi, eg ad sjá, ljós þitt megi, og von þér hjá, vegsemdar loks egi.

5. Mér kann máské ad vera, mín endalyktin harla nær, veit mér þá huggun, Herra! helstundin géf ad komi vær, daudi minn, verdi vægur, vilji þinn, sé mér þægur, leid mig inn, lífs í farsæld nægu.

## No. 134.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Á þig, Jesú Krist! eg kalla, krapt mér auka þig eg bid, þú mér hjálpar æfi alla, ef eg trygdir held þig vid, Jesú! lét mér láttu falla, ad læra helgan dygda sid.

2. Eg svo hlýdi ætíd þínum, elsku bodunn, Herra minn! votti trú í verkum mínum, vandlega reki feril þinn, þinni raust med sannleik sínum, sífeldt gégni varfærinn.

3. Fullkomnun, sem fyrir mig lagdir, framt ástunda géf þú mér, þá ad elska, sem þú sagdir; samt af alhug' varast hér, ad fleka neinn med folsku bragdi, fyrst ad brædur erum ver.

4. Veit, ad þad, sem heimur heldur, heill, ej dragi mig frá þér, þad sem fyrir

gótt hann géldur, gjarna spott og vanþockt ér, en það sælu ædstu veldur, ef vér, Drottinn! hlýðnumst þér.

5. Þá skal trú mín, þýði Herra! þægann ávoxt bera sinn, Drottins ætíð dýrdin vera, dug og krapt er ebldi miñ, fasta vorn skal fyrirbera, freistar mín ef heimurinn.

6. Heyrir þú mitt hróp, eg treysti, Herra! þér, og stendst eg þá, þó mín syndir þrávallt freisti, þú mér aldrej víkur frá, en mér sendir saña hreysti, sigri frægum loksins ná.

## No. 135.

Lagid: Jesús Kristur á krossi var.

Fadir ljósaña! lát þú mér, lýsa jafnan í verøld hér, ljós þinna lífsins orda. Eg fel mig, Drottiñ! einum þér, íllri vantrú mér forda!

## No. 136.

Lagid: Himna rós, leid og ljós.

O! þú hár, Herra klár! hvørr æ til varst, ert og verdur, allt vel gjørdir, alvís, rædur geym, himna'og heim, hverju'um sitt mid, géfur allt, gott ávallt, Gud! eg þig bid:

2. Géf

2. Géf þú mér, heilsu hér, hugskot upplýst, vid þiñ ótta, voldugi Drottiñ! vant sé, heill er þad, unn mér ad, ord mín vandi; þar til mér, hjálpi hér, helgur Andi!

3. Ad gjøra rétt, lát mér létt, og ljúfast falla, í hvorju sinni, hvad sem vinn eg, hér med: verki því, veit mér í, vidgáng hljóta, ødrum hér, eins og mér, allt til bóta.

4. Kjæta géd, kjærleik med, kénn mér hvørn vid, sem míns Guds vild, og minni skyldu' ej mót er; henni frá, fjandskaps þrá, fæli engin, fram svó eg, frjáls minn veg, fái gengid.

5. Gégnum neyd, lífs þó leid, liggi, Gud! mín, ej lát vøhla, heldur hvíla hug vid, von og traust, vafalaust, veit og þad mér, blind'ej sé, en brúkad sé, best til lofs þér.

6. Þegar hrjá, hel mig á, Herra! géf mér, sætann blund, vid sídstu stund, en sé mín, í fødurs hønd, falin ønd, og fari glød þá, upp til þín, er þér mín, ejlíf sæld hjá.

## No. 137.

Med sinu lagi.

Herra Gud í himnarikí, hann oss sinn vilja kénndi, er hann ofan á jardríki, oss tíu bodord sendi.

2. Fyrsta bodord einkum átt, af øllum hug'ad merkja: Hjágud'enga þú hafa mátt, hann einn skalt elska'og dýrka.

3. Annad: miñstú med audmjúk hót, ætíd med Guds nafn fara, og hañ bidja af hjartans rót, heidra og þackir gjøra.

4. Þridja hans bod hugleida skalt: hvíldardaginn ad helga; Guds ord heyr þú og gjarnan haldt; girnd heimsins skalt ej fylgja.

5. Fjórda: heidra med fullri ást, fødur og þína módur; vid yfirmenn skaltú aldrej stjást, óhlýdiñ þver nje reidur.

6. Fimta: ej slá med heipt'í hel, hold manna skalt ej meida; heldur forda og frelsa vel, frá voda hvørn mañ leida.

7. Sjøtta: vid hór þig vara skalt, vilja holdsins ej gjøra; hjúskap eda hreinlífi haldt; hóf lát þér þeckast vera.

8. Sjøunda: einkis áttú fje, okra, stela né ræna; heldur styrkja ad haldid fé, hjálpa, géfa og lána.

9. Attunda bod: ej mæla mátt, meinvitni, róg né lýgi, náúnga þiñ þú affaka átt, ad heidri haida megi.

10. Níunda: girnast ecki átt, añara hús med flærdum; heldur styrkja af hug' og mátt, ad haldist eign þeirra'í værdum.

11. Tiunda: hreinn í hug vert þú, hans qvinn girnstú aldrej; heldur óska; ad ást og trú, vid eginn mann sinn haldi.

12. Gud Fadir, Son og Andi hreinn, ossvyrdist náð ad senda, ad þessi bod hans hvørr og einn, haldi til lífsins enda.

## 2. Ydran, Trú og Synda-fyrirgjefning.

### No. 138.

Med sinu lagi.

Til þín, heilagi Herra Gud! hef'eg lyppt sálu minni, af hug og hjarta'í hvørri neyd, hjástod treystandi þinni; láttu mig aldrej líða smán, olucku, hríxl né sálar-tjón, svo fjandmenn ej fagna kunni.

2. Osmánadir verda allir þeir, eptir þér hvørja lángar, en svívyrdast munu meir og meir, svo margir, sem afvega gánga, og hafna þinni hjálp og náð, en hyllast lesti'og skémdar ráð, og elska'ej utan hid ránga.

2. Voldugi Herra! vísa mér, á veg og gøtu þína, vid sannleik þinn mér hald þú

hér, hyggju fáráda mína, med vísdóms anda uppfylltu, og ordi þínu blessudu, því á þig trú'eg alleina.

4. Minnstú á þína miklu náð, og miskun þúsundfalda, og það himneska hjálpar-ráð, sem hugdir fyrir aldir alda; fyrir gjœdsku þína minnstú mín, og mér þitt fodurlegt hjarta sýn; hreinni trú lát mig halda.

5. Minn úngdóms brest og afbrot leid, álít ej, Herra kjœri! þenktú heldur á þinn ejd, og óbrygdanlegt sœri; o Herra Gud! af hjarta'eg bid, harmþrúngnum þú mér veitir lid, svo sem eg saklaus væri.

6. Gódur og réttvís Gud vor er, sem gjarna medtekur alla, þá, sem ad lífs-braut leita sér, og lætur þá til sín kalla, hug-hreystir skélfda' og hjálpar vid, svo hafi þeir gledi' og andar-frid, og ej megi frá honum falla.

7. Ord Guds og vegir allir hans, eru miskun og sannleiki, nádar-brunnur og næríng manns, náqvæmust, hvad sem veikir, þá, sem hug og hjarta mest, hafa á hans ordi fest, af trúnni svo aldrej skeiki.

8. Nádugi Gud fyrir nafnid þitt, og nægd miskunar þinnar, géf ad mín synd sé klár og qvitt, kénn'eg dagleg hennar,

hún færir bædi sál'og líf, nema sendir þú mér styrk og hlíf, samvitskan svo frid megi finna.

9. Hvørr, sem óttast og elskar Gud, skal eilífa miskun hljóta, Gud kénnir honum sín heilög bod, og lætur ej blessun þrjóta; afqvæmi hans mun audlegd fá, og blómgast allvel jördu á; gudhræddir nádar njóta.

10. Upp til Drottins eg ávallt brá, augunum vonar minnar, því ad einúngis honum hjá, huggun trú'eg ad finna; synda-fjötur af fótum mér, færa mun hann til dýrdar sér, svo meg'eg hans krapt medkénna.

11. Dýrd Gudi Födur og Syni sé, súngin um aldir alda, eins sem hún var ad upphafe, ædsta lof skulum gjalda, heilögum Anda med hug' og raust, hljóti hann lofgjörd endalaust, fyrir blessun margfalda.

## No. 139.

Med sínu lagi.

Sælir eru, þeim sjálfur Gud, syndir af nád tilgéfur, og hvørra brot og illverk med, afplánad Jesús hefir. Sæll er sá mann, þeim Gud þess ann, um löst engann átelur, hvørr frá synd snýr, hatar, umflýr, Herrans miskun sig felur.

2. Svo

2. Svo lengi, sem mig samvitskan, syndir lét ecki játa, mann-dád og heill eg minka fann, mátt'eg þvi jafnan gráta; um dag og nátt, eg fann þinn mátt, of-þúngann mannkind aumri, megnid mitt þá, mér dróst svo frá, sem allt þornar á sumri.

3. Þvi játa eg þér øll min brot, án fegurdar og varnar, hyl ej ad syndgast hef' þér mót, holds-vild fylgjandi gjarna. Sagd'eg med mér: minn Gud! vil þér, mína glæpi medkénna, aflausn og sátt, af þér féck brádt, allra misgjørda minna.

4. Um þá qvittun á réttri tid, allir í trú þig bidja; hvonær sem kémur hørm-úng strid, hér fyrir vilt þá stydja. Þú ert mitt skjól, í allri qvøl, vid háska vilt mér hlífa; vardveit þú mig, svo vit'eg þig, fyrir vernd og nád ad lofa.

5. Þú hétst vitsku ad veita mér, velfæra leid ad boda; forsjá vera og fylgd min hér, forda vid øllum voda; lid veit þvi mér, svo læra hér, lifa og þér ad hlýda, ad himnum á, mér audnist fá, þitt auglit skoda blída.

6. Illfúsir rata eymd og tjón, ókjør þúng og hefnd marga; hvorjir á Drottni hafa von, hans miskun vill þeim bjarga,

 af

af því glediist, í Gudi-mest, af náð og trú réttlátir; hvorjir af hug, hans rækid bod, hrósid Guds adstod kátir.

7. Dýrd Gudi Fodur og Syni sé, súngin og hejlogum Anda, eins sem hún var ad upphafe, oss veiti'hann náð ad standa, vel á hans veg, en varast mjog, ad synd verdi' sídar framen; Gud géfi þad, hans holdum náð, syngjum því allir: Amen!

## No. 140.

Lagid: Kongúng David, sem kenndi.

Drottinn! lát mig ej dyljast, djarflega syndir vid, þó hér um stund megi hyljast; Herra trúr! þess eg bid: nær heimi fer eg frá, orvænting ej mér grandi, ord þitt og sannleiks Andi, hjarta mitt huggi þá.

## No. 141.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Gud! med qveinandi'og klockum hjortum, krjúpum vér nidur jordu á, um vorra sálna ángist qvortum, unn oss á ný þinn kjærleik sjá, aflát og miskun oss því tjá, ofmjog logmáli viknum frá.

2. Svo ástúdlega' í ordi þínu, oss þú dygdina kénnir hér, en kallar menn frá

lısta línu, laun svo dygdanna fáum vér; eñ bodord geymd'eg ílla þín, œ! fyrirgéf vangætslu mín!

3. Greida hvad skyldum gjœdsku þiñi, gáleysi vort svo lítils mat, oss loddi jafnan synd í sinni, svo dárinn opt oss lockad gat; ángradir finnum, o Gud! vér, opt hofum syndgad móti þér.

3. O Drottinn! fyrir augsjón þinni, øndverdt stendur hvad gjørum vær, þú, rád vors hjarta, þánka og sinni, þeckir og skodar fjær og nær; ef þína nád ej þecktum vér, þá ró og von øll tøpud er.

4. En, hvørsu blídt er ord þitt kjæra, ydrandi sálum, Jesú minn! alla mædda vilt endurnæra, ords blessar kéñíng' styrkur þinn; fridar upphaf þín ástin er, oss forsmeck himna-gledi ljer.

6. Þá von og gled' í voru hjarta, verka og styrk, miñ Drottiñ! þú, ad feta Jesú ferıl bjarta, fylgja hans kéñíng hjálpa nú; þá má hvørr vita'og þreifa á, ad þér sé nádin einum hja.

## No. 142.

Med sinu lagi.

Af djúpri hrygd ákalla'eg þig, o Gud! hlýd røddu minni; þín nádug eyru

opni sig, ad eg bænheyrast kynni; ef synd-
ir og athæfid illt, álíta og tilreikna villt,
hvörr stendst fyrir hegníng' þinni?
2. Ast og náð veldur ein hjá þér, ad þú
synd qvittar mína, ej gyldir par hvad gjör-
um vér, góðverk þó kynnum sýna, hjá þér
enginn sér hrósa kann, hræðast verdur þig
sérhvörr mann, og miskun þyggja þína.
3. A Gud eg einann vona vil, verdleik
mínum fráfnúa; mitt hjarta Gud adhyll-
ast skal, hans náð og gædsku trúa; hvad hej-
løg ord hans hétu mér, heill mín og blessan
það eflaust er, ad þeirri von vil eg búa.
4. Þó mørg og stór sé mannleg synd,
miklu stærri er nádin, endalaus er Guds
hjálpar-hønd, hvørsu stór, sem er neydin,
hann vill í líkn afleysa vel, lýd, sem ydr-
andi vottar þel, honum tjer hlýdnis ejdinn.
5. Fødur, Syni og Anda sé, ædst dýrd
um jørd og himin! eins sem hún var ad
upphafe, án enda verdi framen; kénn oss
ad halda kristinn sid, qvittast og skilja
syndir vid, sá það vill, sýngi: Amen!

## No. 143.

Lagid: Mitt hjarta hvar til hriggist þú.

Allt þad eg hefi illa gjort, allt, Jesú!
bæta, kominn ert, um allt því

eg qvittur er, allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bið eg, hjálpa þú mér!

## No. 144.

Lagið: Guds Son kallar: komið til mín!

Hér einum hraut eg móti mest, minn Gud! hjartað mitt sier þú best, og alla athofn ránga; bølvun þúnga, sem boða fer, bið eg þín miskun líkni mér, hlífi við straffi stránga,

2. Bœnar-qvak mitt og andvørp øll, eru Hér kunn, mín tára-føll, allt eins þér eru' ódulin; æ! hvað lengi mig ángur skér; o Gud! hvad lengi ertú mér, samvitsku-hrelldum hulinn?

3. Allt ej svo mín afbrot ijót, að refsíng komi þeim á mót, eptir stærð illsku minnar; eg flý á þínar náðir nú, náðugi Gud! mitt hjarta þú, huggun og frið láť finna.

4. Vísa mér aptur veg þinn á, vel innræt mér þinn ótta hjá, að hejløg boð þín haldi; géf eg æ betur þóckníst þér, þér, minn Drottinn! hvørs þjón eg er, heiður og hlýðni gjaldi.

5. O Herra Gud, mín hlífð! eg bið, hjálp lát mig ætíð kannast við, og miskun

Þacka þína, ad eñ vilt géfa afbrot qvitt, allta bænar hrópid mitt, ond hrelldaañ-ast mína.

## No. 145.

Lagid: Konúng Davíd, sem kénndi.

Minn Gud! eg má þad játa: mikil er syndin mín, þó er í allañ máta, eñ meiri nádin þín; øll mín von á þér stár, géf þú eg glatist eigi; géf ad þig lofa megi, hér og um eilíf ár.

## No. 146.

Lagid: Avi! Avi! mig aumañ mañ.

Heyr mín hljód, himna Gud! hjartad mitt, hrópar ódt, af harmi mødt, á hjálprád þitt! vid brot og syndir brjóst gjør qvitt, svo barni þínu verdi frídt, fyrir Herrañ Jesum :,: hrelling stitt :,:

2. Neydin mín, og nádin þín, nú mig knýr, ad bidja þig, þú bænheyr mig, géf blessun hýr! ej tapast neiñ, er til þín flýr, med trú og ángri, Fadir dýr,! mér vyrdist ecki :,: von sú rír :,:

3. O miñ Gud! o miñ Gud! eg þig bid, ángrid skér, uñ þú mér, andar frid; eg fæ ej stadist freistñi vid, Fadir gódur! veittú lid; heyr þú barnsins :,: qvein og klid :,:

4. Hugañ synd, hrellir blind, Herra miñ! eg hrædist neyd, dauðañ deyd, og dóminñ þiñ; bót og líkn mér, Fadir! finn, í freistni enga leid mig inn, heldur frelsa :,: þjóninn þinn :,:

5. Leid þú mig, svo lof'eg þig, ílfi hér, af hjartans grunn', med huga' og muñ', sem hæfir og ber; daudur enginñ Drottiñ þér, dýrd í þessum heimi tjer, heldur sá, sem :,: líf þú ljer :,:

6. Veika trú, vidrétt þú, og veg miñ greid; eg flý til þín, forda pín', fári'og neyd; géf mér, Herra! gódañ deyd, í gledi himna sídan leid, nær; linnir þetta :,: lífsins skeid! :,:

## No. 147.

Lagid: Hærsti Gud Herra mildi.

Vaknid upp, kristnir allir! og sjáid syndum vid; af hjartans rót ákallid, ejlífañ Fødur Gud! hans svo ej hegning mætum, hverfi oss nád hans frá; utan syndum aflátum, ydrunist og lifnad bætum, vesælir verdum þá.

2. Rádleggja ydur látid, lofsu ad skilja vid, af hreiñi ydrun grátid, ill verk og vondañ sid; heilagri umbót heitid, hyll-

íst Gud hér í frá, mest ad hans ordi leitid, eptir því gjarnan breytid; hann vill oss vera hjá.

3. Heill og nád hann oss géfur, hlýdna ef fær oss sjed, í eilíft líf oss upphefur, ollum Guds börnum med; því er skyldt til vor tækjum, trygd Guds og miskun hans, þá nád aldrej óræktum, eptir henni helzt sækjum, fetum spor Frelsarans.

4. Jesúm Krist Son sinn blída, sendi Gud ollum oss; lét hann fyrir oss lída, last, heipt og qvol á krossi, svo nád oss ollum syndist, sitt líf í dauda gaf, fyrir oss aumra syndir, án þess manukyn allt týndist; hann hjálpi oss eymdum af.

5. Allt gott svo odlast megid, ákallid Jesúm Krist, hans nád þér erfa egid, eptir veraldar vist; lánga mædu hér lídid, leitid því Drottni ad, oruggir ætíd stridid, ollum hans vilja hlýdid; Guds náð oss géfi þad!

## No. 148.

Lagid: Sá frjáls vid logmál fæddur er.

Syndugi madur! sjá ad þér, sál þín svo hólpin verdi; eilíft líf byrjar hvorr sá hér, hreina ydran sem gjordi,

2. Hvar

2. Hvar sú hin hreina ydran er, er þar og qvittan synda, en sú qvittan hún ablar sér, elsku Guds til mannkinda.

3. Þvi fá þeir allir eilíft líf, sem yfirbót synda vinna, en andar tjón og eymda-kíf, ydrunarlausir finna.

4. Drottinn vor Jesús dó á kross, ad deyda syndin mætti, látum þvi ecki lifa' í oss, lesti med vondum hætti.

5. Géf mér, Herra! í hjartad mitt, hreinann ydrunar anda, svo ad mín sál' af syndum qvitt, syngi þér lof án enda.

## No. 149.

Lagid: Má eg blucku'ej móti stá.

Géf þú oss, Herra! heims um hríd, heja gott stríd, og trú heilagri halda; samvitskan hrein þar sé vid fest, sem kunni best, sigursæld vorri valda, svo born þín ein, hér hjartahrein, megi þig fá, í sælu sjá, og lofa'um alldir allda.

## No. 150.

Lagid: Daudans þungu kramin qvöl.

Eg er breiskur, misgjerd mér, mildur Gud þó fyrirgéfur, sú umþenking þróttinn ljer, þegar ótti hugann vefur;

nú þarf framar enginn efast, aðstoð Guðs mun breiskum gefast.

2. Sanleiks ljós hans orði í, ei formyrkvast, heilla nýtur, hvorr, sem orði hlýðir því, hjálp og krapt til dyggða hlýtur; nú þarf framar enginn efast, aðstoð Guðs mun breiskum gefast.

3. Mildi Faðir! mikli Guð! mér æ syndin leið skal vera; jeg vil heyra Jesú boð, jeg vil trúr hans okið bera; Herra! styrk mitt hjartað veika, hvonær sem í efa reikar.

## No. 151.

Lagið: O Faðir minn! eg þrællinn þinn.

O minn Jesú! mér inngéf þú, andlegt ljós trúarinnar; lýsi það mér, svo lær'eg gjör, leið sálujálpar minnar, svo eilíft líf, eptir heims kíf, eg mætti fá að reyna; lof sé, Guð! þér, þú ljentir mér, lífið og trúna hreina.

# 3. Elska og Traust til Guðs.

## No. 152.

Lagið: Um dauðann gef þú, Drottinn! mér.

Hvað íllt og bágt, sem mætir mér, mín von til Guðs sig hefur, minn sem að

Fadir mildur er, manna hjálp oll þá tekur, og einka reynast vinir verst, veita óvinir bagtur mest, Gud mig ej yfirgéfur.

2. Þó athöfn besta megi mín, manna álasid bída, Gud! allt er bert fyrir augum þín, eg vil þolgódur lída; þú sier míns hjarta hulda rád, ef halda mætt'eg þinni nád, þá engu þarf ad qvída.

3. Þó sorg og ánaud sífeldlig, samferdist lífsins dogum; eg gladur er, því, Gud! veit þig, gloggt sjá hvad mínum hogum, er fyrir bestu, mædu med, mitt þú reynir og venur géd, í þínum ad þrey'álogum.

4. Þó samtok gjordu himin, haf, og haudur mér til ama, hætknum stæd'eg umspenntur af, og ógn hels í bili sama, en hetinnur allur hvirfi mér, Herra Gud! samt eg treysti þér, óttast fár eckért framar.

5. Þú leidir mig um daudans dal, dásamri fodurhendi, hún minn æ vera skjoldur skal, eg skélfist ej hvar lendi; þrái himin, þó þreyi hér, þú svo kórónu dýrdar mér, í ædsta gledi'afhendir.

## No. 153.

Lagid: Mitt hjarta! hvar til hriggist þú.

O! hvad stór sæla'og yndislig, er mér jafnan ad meg'á þig, minn Gud!

traust

traust setja mitt; allur vidlifrar andi minn, er eg íhuga kjærleika þinn.

2. Allsþurfa mig eg aumañ sañ, adstoda mig þín mildin vañ, ad ebla mín egin not, mér, o Gud! þín gædsku'atlot, gáfu styrk vid kraptanna þrot.

3. Hvorsu ætti þá yndælt mér, ætíd vera ad treysta þér, Gud! mátt'gur, gódur, vís, sem veitst þorf mína'og vilt mér best, veitir allt til hagsælda mest.

4. Iñræt þá djúpt-had edl'í mér, einum fyrir mér trú'eg þér, ejlíñ ástvin miñ! fyrir mér í sérhvort siñ, sjái, Drottinn! vísdómur þiñ.

5. Iá, þú, Fadir! sem alvís ert, allt fær lángt betur vid mig gjort, enn óska'eg edur skil; gégn og hlýdiñ gjarna'eg vil, gánga fram eins og segir þú til.

6. Aftrikur Fadir ertú miñ, almætt, gædsku og vísdóm þiñ, allt brúkar oss til gods; mitt einka traust í allri neyd, og athvarf skaltú'í lífi og deyd.

## No. 154.

Lagid: Gef þinni Kristni gódann frid.

Hvad sefa lífsins harma kann? hvad þañ syndugasta, þjáda, hrellda og mædda

mædda mann, mót daudans ebla voda?
vér þad gætnir viljum skoda!

2. O! hvad skyldi oss ædra nú, á himn'eda jordu géfast, enn vel grundvöllud vissa sú, vid hvørja mein øll sefast; Guds um nád þarf ej ad efast!

3. Þessi vissa af Gudi gjør, er grundvøllur trúar þinnar, hvort sem þú bídur feigd eda fjør, feginn skal þig til minna; hún ein allt kann yfirvinna.

4. Hafir þú Gudi elsku á, einlæga, vissa, heita, hans þecking girnist hollrt ná, hans velþócknunar leitar; hann þá ej um nád þér neitar.

5. Leitist þú vid, sem mest ad mátt, med øllu hugar-fari, ad líkjast Gudi' á allann hátt, æ verda fullkomnari, gódur, vitur, Gudi' líkari.

6. Þetta allt er þér vottur viss, ad vísa nád hans egir; en øll skinhelgin útvortis, enga þér huggun segir; varast hún þig vjela megi!

7. Ástunda, viss ad æ þú sért, um Guds nád hvørju sinni, lát þá vidleitni leynt og bert, lifa í sálu þinni; ást hans ertú æ í minni.

8. Á gledi-stund, sé yndi þitt, ad nád Guds megir halda; sú von í øllum sorg:

um midt, sælu-umbuñar gjalda, hér og sídar víst mun valda.

9. Og þegar daudans ábli mót, áttu loks strid ad heja, hvorsu lif-kroptug bøls er bót, brygdarlaust kunn'ad segja: viss um Guds náð vil eg deya!

## No. 155.

Lagid: Gled þig, Guds Sonar bráð!

Hví skal mér veiklast von! veit eg Guds mildi Son, er med oss allar stundir ockar senn verda fundir; óskélfd mín augu mæna, á hann í qvaki bæna.

2. Um heimsins gledi og glis, gedjast mér eins og sis; skjótt miss'eg skémtun slíka; skimp met eg hans vidlíka; þad má létt hysmi heita, hjá því eg eptirleita.

3. Leggi Gud ok mig á, og harda rauna brá; o! eg vil eckért kjæra; eins má þad heill mér færa; skal mer ej lík'ad líða, ljúft, nær hann vill, hid stríða?

4. Sál og hold, fjør og fje, fjarlægt er mitt ad sé; þú, Gud! átt þad, sem lédir, og þótt snarlega rédir, líkamann lísi sneyda, lof þitt eg vil útbreida.

5. Daudinn ej deydir oss, dýrdar ej-lifrar hnoss, hañ gjørir hrjádum færa, og

hvíld

skyld í grofum væra, andstreymi, eymd og mæda, engann þar megn'ad hræda.

6. Nær endast tímans tóm, med tign og hvellum róm, vor Jesús Kristur kémur, kjær minn Frelsari nemur, mig í dýrd þá ej þrotnar, þar hañ um ejlífd drottnar.

7. O! skyld'eg örvýlnast? o nej, eg trúi fast, míns Jesú öllum ordum, er jafnan standa'í skordum! þú ert miñ, þér eg treysti, þinn er endurleysti.

## No. 156.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Hvad er sem letur hjartad mitt, til himins veg þann képpa, o minn Drottinn! sem ordid þitt, á leidir mig, svo hreppa, fái þar líf og fulla nægd, frí vid óvina makt og slægd; hvörr vill því hnossi sleppa?

2. Er Jesú ok svo ýfrid hardt, og ofþúngt kroptum mínum? heimtar þá Gud svo mikid og margt, mildum í bodum sínum? o nej! miñ best þú kéñir krapt, kjærsti Fadir! sem mig hefir skapt, og krapti audgad þínum.

3. J holdi, Jesús! þoldir þú, þá sjálfur freistni alla, er huga minn vill hindra

nú

nú, og honum þúngbær falla; þú verkéñir því veikum mér, vilja þá fúsann hjá mér sjer, þó framqvæmd finnir halla.

4. Elskan þín trúfost eblir mig, og útbýr krapti neytum, hvad sterkur verd eg þá fyrir þig, þeim il gjæddur svo heitum! o! hvorsu var sú ást þín sterk, er þreif mig burt úr daudans qverk, med písl og þúngri þreytu!

5. AE! skyld'ej þiñar ástar-glód, uppverma sálu kalda, ad hyllast bod þín holl og góð? hvad kann eg annad gjalda, verdugra lof eñ feta fús, feril þañ, sem géckst, minn Jesús! og baudst mér eptir halda?

6. Þessvegna gégnumþreyngi sér, þín elska sálu mína! uppmálud standt æ fyrí mér, ást þín, harmqvæli'og pína! o hvorsu finst þá ydnælt mér, ef elska' eg þig, ad hlýda þér, þá gjörvöll þýngsli dvína.

7. Mót allri holds og heimsins lyst, hér af verd eg øblugur, sú trú, ad féckst mér fridarvist, fót minn stydur; þinn dugur, í mér breiskum sig obl'gann tjer, allt megna eg, nær hlýdi þér; þar vid minn hressist hugur.

8. Allt hvad mig brestur, baudstú mér, med bæn, o Gud! ad sækja; þín Fodurmildin

mildin opin er, ef eg þín boð vil ræksja; andvarpan fer þá engin mín, án bænheyrslu frá stóli þín; hvað kann þá hug minn flækja?

9. Eptir það stríð, sem eg skal hér, í þínum krapti heja, á eg í vonum, þar hjá þér, þegar eg trúr næ deya, eilífa unun, eilíft hnoss, yndæll sé mér því sérhvørr kross; hvað létt er því að þreya?

10. Já! breiskt er hold mitt, heimur flár, hætt skeiðið, tæp mín gata; en, Guð! þíns anda kraptur klár, kann mér aldrej að glata; æ svo lengi eg elska þig, obl'gari vill hann gjøra mig, lætur veg réttann rata.

11. Allir samhuga einum þér, auðmjúka lofgjørð segjum, af fúsu hjarta allir vér, undir þín boð oss hnegjum, sem holl og létt eru hvør um sig, hjástoðar, Drottinn! beiðum þig, og þolinmóðir þreyum.

## No. 157.

Lagið: Gæðskurlkasti græðari minn.

Svo skal ej framar nockur neyð, né heldur þessa líkhams deyð, mér frá þér megn'að venda; o Drottinn! eg er ástkjær þér, elska vil eg þig stoðugt hér, en ann-

annars heims án enda; send mér, sem þér, þóknast gledi, þjáníng medur, þig alreisann, eg vil þo jafnan í øllu prísa.

## No. 158.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Allt mitt rád til Guds eg set, á mér sinn vilja verda lét, mér, bid eg, hans miskun hlífi, heilsa, vit, líf, sál, heidur, fé, hans vernd jafnan befalad sé, nú og í eilífu lífi.

2. Minn audnu hag svo opt og þrátt, ástin þín, Gud! vidrétti brádt, er andvarp eg þér senda, verdi þvi á mér vilji þinn, vel muntú, hjartans Fadir minn! leida mig allt til enda.

3. Hér ad auk bid eg, Herra Gud! hjálp mér ad geyma vel þín bod, og þeim eptir ad breyta, þolinmædi eg þyggja vil, og þeim vægja, sem gjora mér til, vyrdst' mér nád þar til veita.

4. Hvad verdur mér ad meini þá, máttugur Gud mér stendur hjá? hvad kann mig þá ad þrjóta, er sá hjálpar úr allri naud, øllum sem gésur daglegt braud, og sælu med sér ad njóta.

5. O Herra Krist! mín hæsta von, hvørki luckunnar gjof né tjón, láttú mig

frá þér leida, nád þín ávaxti vora trú, vid synd og qvølum forda þú, og géf oss útfør góda.

## No. 159.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Þú ert minn Gud, ej óttast eg, og ej skal heyrast qveina, þótt eg færist um þyrna veg, þína stjórn sje eg eina; víslega veit eg nú, vid mig ad breytir þú, æ huggar mjúkast mig, miskun þín fødurlig, er eg svo opt fæ reyna.

2. Þér og nád þinni mig og mitt, minn Gud! eg fel á hendur; allt hvad eg hefi, þad er þitt, þínu í valdi stendur; þín stjórn mér hægust er, þad besta viltú mér; o Herra gjædsku gjarn! til góds fyri þitt barn, medlæti og mædu sendir.

3. Gud fær ej sínum gleymt, ì hrygd, géd mitt sá þánki nærir, von, sem á ord þín er uppbygd, aldrej kinnrøda færir. Burt ángist øll og sorg! ørugg er Gud mín borg; vel eru gjørd hans verk, ver mig hans geymsla sterk, og til farsældar færir.

## No. 160.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Mitt traust á Gudi gladvært er, Guds nád býdst fyrir Jesúm mér, eg von

lífs eilífs heit, oss í náð taka aptur vann, og arf hefir í sælu-rann, með sínum Syni gefið.

2. O Herra! hvílík heill þad er, hlut-fall-ega með sjálfum þér, náð þína og himin hljóta, með trú af hreinu hjarta þig, heitt að elska og vita sig, alls góðs af þér að njóta.

3. Orð þitt eg gladur uni við, innvortis styrk og sálar frið, hvert sann-trúndum heitir; þad huggar lífsins hörm-úng í, heill í medlæti vex af því, hug-prýd'í háska veitir.

4. Viðhaldt mér, Drottinn! hjálpráð mitt! í hreinni trú á orðið þitt, nafns þíns og náðar vegna; lát þad upplýsa veg minn vel, væga gjöra þau dregst að hel, andlátsins mædu megna.

## No. 161.

Með sínu lagi.

Mitt hjarta! því svo hriggist þú, í harmi og trega velkist nú, fyrir valtañ ver-aldar auð; set þína trú á sannann Gud, sem öllum gefur daglegt brauð.

2. Yfirgefa þig ei vill né kann, alla þörf þína þeckir hann; hans er himin og

jörd.

jörd. Miñ ljúfi Fadir og mildi Gud! mér sendtú hjælp í allri naud.

3. Þú ert minn Gud og Fadir kjær, þitt barn ej yfirgéfid fær; æfi þín er mjúk og mild; añad, þæ mædir eymdin hörd, eckért hef'eg traustid æ jörd.

4. Ríkur af gótzi gledur sig; Gud minn! vid þig eg hugga mig, eg þó óvyrdtur sé; þad er mín trú og eflaus von, adsiod veitir þínum þjón.

5, Þitt ríki, Drottinn! þrýtur síst, þitt vald er stödugt jafnan víst, æ þér er allt mitt traust; ejlíft gótz hefir eckért tæl, audga med því mína sæl!

6. Stundlegann heidur eg hugsa'ej æ, himneskann vild'eg gjarnan fæ, hvörn Jesús hefir keypt, med sínum dauda'og dapri pín; Drottinn! bid eg, heyrdú til mín!

7. Allt þad veroldin er af full, eignir gótz, sylfur eda gull, stundlegt skraut og skart, lítinn tíma þad lænad var, líknar ecki sælunni þar.

8. Jesú Guds Son! eg þacka þér, þessa vitsku þú kéñdir mér, og Guds ad gæng'æ veg. Veit mér stöduga von og trú, vænst er sælu huggúnin sú.

9. Lof og heidur æ hvörri stund, hæsti Gud! sé þér æ alla lund, þig, Fadir! þess

eg bid: ejlífann géf oss andar-frid, og arf himins, þá skiljumst hér vid!

## No. 162.

Med sinu lagi.

Hvorr sem ljúfann Gud lætur ráda, líka vonar á hann ætíd, vill þann Drottinn vernda og náda, víst þó ad dynji neyd og stríd. Hvorr sem vid Gud sér heldur tryggt, hús þess er ej á sandi byggt.

2. Hvad stodar oss med hrygd ad klaga? hvad stodar oss vort óp og vein? hvad hjálpar oss þó alla daga, ángra látum oss sorgar-qvein? skál vors mótgángs, sem afmæld er, aukum med harmi sjálfir vér.

3. Bíd, kristin sál! um stund í stilli, stedva þitt géd, svo lyndi þér, ad Guds nádar-vild á þér fylli, alvitsku hans hvad þeckast er; Gud, sem hefir útvalid oss, opt til farsældar sendir kross.

4. Fulltreyst, og Guds þíns gack á vegi, gjør øll þín verk med dygd og trú; um blessun Drottins efast ejgi, aldrej mun þér þá bregdast sú; hvorr sitt traust á hann setja vann, á sandi ecki bygdi hann!

No.

## No. 163.

Lagid: A Gud alleina.

A Gud eg einann, alla set von og traust, vil med hug hreinañ, hañ dýrka endalaust, í geymslu'og gjætur; Guds eg ønd mína fel; frá hrøsun fætur, frelsar hann mína vel, og í ljost lætur, sitt ljúfa ástar-þel.

2. Sekt synda þúnga, Son Guds fyrir mig galdt, hann hjarta'og túnga, heidri og líf mitt allt, ef eg hans bodi, ætíd trúr hlýdnast vil, alls enginñ vodi, ønd míñ'er skjædur til. Hans mig hjálp adstodi, vid heiminn þegar eg skil.

3. Þér lát mig þjona, þú mildi Herra' og Gud! vel vid ad una, veg þiñ og sinnda bod; ad mig ej giñi, illrar veraldar slægd, né vondt eg vinni, svo verdi nád frá bægd; haf þá mig í minni, um mild'er bid og vægd.

4. Þú mig hughreystir, í hvørskyns sorg og neyd, sem svo dýrt leystir, med Sonar þíns pínu'og deyd. Hvad um vid meta, þad mæti? allt eg á; hvad mig hrelst géta, sem himna frid vann ná? þinn Son vard sigur-hetja, og ogur gafst mér þá.

5. O Jesú! eina, athvarf og vonin mín, lát mig lífs beina, leid hræda'í dýrd til þín; ej óttast nái, í grøf síst stadar nem, þig daud'eg þrái, þú vel mig leidir heim, svo Guds eg sjái, sælu, í dýrd þá kém.

6. O ædstu gledi, er eg þá Jesú fiñ! med gjædsku gédi, Grædari talar minn: kom, madur mæti! hjá mér um ejlífd tef, í sóma sæti, sem eg þér búid hef! ædsta eptirlæti, o Jesú! þad mér géf.

## No. 164.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Burt med heimsins ónýtt yndi! ej er veröld mér svo kjær: aldrej faunst þar leika'í lyndi, lángvinn tign, né ró gladvær; allur í hæd er hugurinn, hefur sig þángad andi minn; helzt til létt er heims ágjæti, himin-sælu þýngd ad mæti.

2. Gjørvallt vil eg gladur affegja, Gud minn! þad sem stundlegt er; minn, skal enginn hlutur hnegja, hug frá skyldu, dygd og þér; þó ad heiminn ætti eg, en útibyrgd frá dýrdar veg, sál mín gengi villt í voda, vildi lítid hitt mig stoda.

3. Gud af ollu godu ríkur! gnótt eg á, nær hef eg þig, eg veit frá mér ej þú víkur,

alvold

alvold hond þín leidir mig; ef þá kann ad mæta mér, mein, sem þúngt og biturt er; þó eg í hljodi þykist lída, þitt er ad bjóda, mitt ad hlýda.

4. Ségnum lífsins eymd og ama, ánægdur eg þreyti gáng; augad horfir trúartama, til þess lífs, er veit í fáng; sonn hvar gledi og sælu hnoss, Sonar þíns gjöf er búin oss, sigur, frid og sæld um aldir, í sitt hlutskipti sá útvaldir.

## No. 165.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Alvaldi Fadir allra þjóda! á þig treystir mín frelsud ond; eg fel mitt líf og allann góda, í þína mildu verndar-hond; alvísi Gud! þest allt þú sjer, er til velferdar gagnar mér.

2. Auga mitt sljó-skygnt er mjög tídum, um skammt hugur og dugur þver, en þú, sem stjórnar ollum lýdum, aptur hug og dug géfur mér; best hagar ollu, best þú sjer, bornum þínum hvad gagnlegt er.

3. Opt, þá mitt hjarta ángist reyrdi, óttafullur var naudum í, mína andvorpun minn Gud heyrdi, mér qvelkti gledi-ljós á ný; svo vís og gódur enn hann er, ætid gjætir hann vel ad mér.

4. Eg fel, minn Gud! í umsjá þína, allann velferdar minnar hag; mér vann Jesús þinn Sonur sýna, sannrar manndygdar háttalag; o! ad eg fyldi eins og hann, andstreymi hvort sem mæta kann.

5. Omegi daudans ej skal qvída, eg þó ad bleikum verdi ná, af því Frelsariñ allra lýda, er vinur, sem mig dæma á; svo sem hann mína eg fel önd, o Fadir kjær! í þína hönd!

## No. 166.

Med sinu lagi.

Hvörr sem ad reisir hæga bygd, hærsta Guds skjóli undir, í geymslu Drottins, og gleymir hrygd, géfur sig allar stundir; sá talar vid Gud: þú tókst vid mér, treysta vil eg því gjarnan þér, og unn'á allar lundir!

2. Vel mun og Drottinn vernda þig, fyrir vélum allra handa, þó skadleg bætta sýni sig, síst mun þér kunn'ad granda, hans vernd og skjól svo blífir hér, í hvörri neyd hann sendir þér, sinn styrk og hjálp til handa.

3. Svo mun og líka sjálfur Gud, vel sjá til þín og leida, á vegum þínum þér veita stod, og venda öllu til greida; frá

þér

þér burthrynda háska'og pín, ad hvorgi nái þú fætur þín, á minnsta steini meida.

4. Hvorn sem ad lángar mjög til mín, (mildur Drottinn svo kénndi), þann skal eg leys'af skada'og pín, og skýla med verndar-hendi, bænheyra hann og hjálpa' í neyd, honum loks géfa værann deyd, og líf, þó æfi endi.

5. Lífdaga hans eg lengja skal, og láta þá ej brádt þrjóta, en hjá mér upp í himna sal, hann mun fullsælu njóta; þar sýn'eg honum mitt hjálpar-rád, hjartans unun og fulla nád, svo umbun fái'hann fljóta.

## No. 167.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Fyrir þig, Gud! sem veldi vídu, vís Stýrir Alheims fram eg ber, af klöcku hjarta þackir þýdar, þygg gladur kjör, sem ljentir mér; ástríka Födur-þelid þitt, þeck'eg vid sérhvort sporid mitt.

2. Í yndælt skart þú ár hvort klædir, ótölu blómstra', er handrid ber, frjóssamri döggu grundir grædir, gleymist ej minnsta stráid þér; skyldir þú géta gleymt mér þá, gjædsku þína, sem treysti á?

3. Nej!

3. Nej! hjartad gleymia má fyrr móð-
ur, mót edlis-bodi, fóstri sín', eñ þér, líkn-
sami Gud minn gódur! gleymist sái vel-
ferd sauna min; þolgódur lífs eg þreytt
veg; þú ert min hlíf, ej óttast eg.

4. Eg óttast ej þá eymd og pína, á
heims-vedhlaupi varpast mót; sorga er
djúpt þó sálu mína, særi, veit eg miñ leidd-
ir fót, þess vegna fram á þrauta stig,
ad þú, minn Gud! leidréttir mig.

5. Vongódur svo minn veg eg fett,
veikann upplífgar huga þú, ad traust á
Jesú ord eg setji, um dýrd med þér, þó
líd'eg nú, minn Gud! á himnum þar hjá
þér, þar eg fullsæll um eilífd er.

6. Líknsami Fadir! Gud minn gódi!
géf þessi orugg von til þín, hvad sem kann
mæta heims um slódir, hverfi'aldrej úr
brjósti min; þá géfur, sviptir, Gud miñ!
hér, gjorir þú allt til besta mér.

## No. 168.

Lagid: Ris upp, min sál! ad nýu nú.

Af þér, Herra! hef'eg nú von, hjálp, svo
eg ecki verdi'ad smán, hér eda'í hinu
lífi, frelsa þú mig, þess beidi eg þig, þín
ást mér ætíd hlífi.

2. Bæn-

2. Bænheyr þú mig af mildi nú, miskun og náð en til mín snú, flýt þér fulltýngi'að veita; þá stend og bíd, í stórri neyd, styrks hjá þér einum leita.

3. Hjálp ert þú mín og hlífdin trú, heilagt ord þitt er verja sú, er øllum eydir vanda; þá Herrann Gud er hjá í naud, hvorr kann þá móti'ad standa?

4. Ejlífi Gud! ej vík fra mér, anda minn befala eg þér, medtak hann þér til handa, o Herra trúr! eymd allri úr, leys mig þá lífid endar.

5. Herra eg flý í þraut til þín, þú einsamann ert adstod mín, huggun og hjálp mér sendir, mín tíd og stund, eign, líf og ønd, allt er í þinni hendi.

6. Heidur og lof sé, Herra! þér, sem hefir óverdugum mér, hjálpad í hørdu lífi, og hétst af nád, óhultum stad, í því komanda lífi.

7. Allir trúadir elskid Gud, oss vill hann frelsa'úr hvørri naud, einkum þá honum hlýda; hof-módugt géd, vanheidur med, heguíngu'án efa bída.

8. Þar fyrir hafid gladvært géd, Gud prísid huga'og raustu med, allir sem eptir honum, bídid um stund, því ydar ønd, úr þýngum leysist raunum.

9. Fødur, Syni og Anda nú, ædst lof og dýrd af hug'og trú, syngjum vér allir saman; veit þú oss, Gud! fylgi og frid, fyrir Jesúm Krist, Amen!

## No. 169.

Lagid: Náttúran øll og edli manns.

Verdi ætíd hvad vill minn Gud, vild hans er æ hid besta, vís er þeim jafnan vernd og stod, vid hann er sína trú festa; hann hjálpar trúr, eymd allri úr, agar verøld í máta; þann á honum traust, hefir efalaust, ej vill né kann forláta.

2. Herra Gud traust og heill mín er, hjálp, von, líf, ejlíf sæla; hvad sem hañ vill, þad verdi mér, vil eg því ej mótmæla; hans mildi klár, mín høfud-hár, hefir øll talid án efa; hvad hañ mér fá, best henta sá, hann vill af nád mér géfa.

3. Þar fyrir auma verøld vid, vil eg fúslega skilja, til míns Drottins í fullañ frid, fara eptir hans vilja; fel mína ønd, í fødur-hønd, hvørt farsæld bíd edur voda; hans ástar þel, mig verndar vel, og vill í dauda stoda.

4. Súngin þøck, heidur, sæmd og lof, sé Fødur allrar mildi, sem út fyrir oss Son-

inn

innu gaf, synd heims ad bæta skyldi, og á hann blód, æ, mannleg-þjód! átt þad í minni festa; því hugsa tídt, og þacka blídt, þá nád og elsku mesta.

## No. 170.

Lagid: Herra Gud í himnarîki.

Vertú, Gud Fadir! fadir minn, í Frelsarans Jesú nafni; hönd þín leidi mig út og inn, svo allri synd eg hafni!

# 4. Elska til sjálfra vor og Náúngans.

## No. 171.

Lagid: Kom Skapari heilagi Andi.

Nósom samvitska' ef er ad eins, eign mín, hvad kann þá bleskra mér? hvad fær þá ordid mér til meins, megn þegar qvídi adra skér?

2. Flecklaus samvitska'og falslaus trú, farsælust hlutdeild mín er þá, þeim frid'er géfur sæla sú, svipta kañ engiñ mér í frá.

3. O hvílík gledi! sagt vid sig, med sanni géta': eg í mér fann, girnd til hins

illa,

illa, geymd'eg mig, Gudi sé lof! eg yfirvann.

4. Æ hvörsu þúngt um sjálfann sig, ad segja hljóta þar á mót; á lasta vondañ villu-stig, viljandi minn eg setti fót!

5. Upp til Drottins med hjarta hreint, ad horfa'og segja: Gud minn! þú, ert æ mitt athvarf ljóst og leynt; hvör lucka veitist stærr'enn sú?

6. Sjá! allt hverfur, þig helid burt, hédan senn flytur, daudans-flein, hvad sljófgar? hann fær hægann gjört, hugar-rósemd hjá Gudi hrein.

7. Sæll, kristni madur! sem ad þér, sálar-ró þessa finnur hjá; því sjálfur daudinn hana hér, hrakid fær ecki burt þér frá.

8. Sá hinn gudhræddi segi því: sjór, himin, lønd og sképnan hver, samblaud þó fyrsta falli í, fødur-hønd Drottins líknar mér.

## No. 172.

Lagid: Til þín, hejlagi Herra Gud.

Gud! mig skóp ást þín mildilig, ad mætt'eg sælu njóta, ef eg trúfastur óttast þig, óttast þín løg ad brjóta; vandi eg hjarta'og verk mín hér, vottar samvitskan þetta mér; hún kann afsaka'og hóta.

2. Und-

2. Yndæla jafnan andar fró, eg finn innitt hjarta kjæta, nær vilja Guds í verk-leik þó, vidleitast hlýdinn sæta; samvitska minn sanna hér, sífeldlega því gefur mér, ef skyldu gjör'eg gjæta.

3. Og þessa gledi, yndi'og fró, eckért kann frá mér taka, hreinskilni mín er hul-in, þó, hugsun þá læt eg vaka, ad Gud, minn Gud, allt gjörla sér, Gud mín um-bun og Fadir er; hún lífgar, hún afsakar.

4. Æ! gódi Fadir! einatt þig, eg styggdi margvíslega; samvitskan þá ásakar mig, sál fyllist blygdun, trega; óró, nagandi ángist mér, eptirfylgir hvar helzt eg er, og offækir alla vega.

5. Já þó eg hjartans freistit'ad, fá, for-dæmíng nidur-kafid, heims útí glaum mér gjöri slá, ad gleymsku brot sé vafid; sú værd er engin sálar fró, svipula huggun von sú bjó; síst féck hún hug minn hafid.

6. Þann fögnud veitt, er vara má, víst ej heimurinn gétur, nær endalokin eptir á, íhugar sál mín betur, eg fæ þess þá med undrun gád, ad girnda leid er blómi strád, en í óheill mig fletur.

7. Æ! lát þá þetta, gódi Gud! mitt gjörvallt hjarta hræra, ad þín eg stundi

ástrík boð, með alúð geyma'og læra; Faðir! sú ein mín farsæld er, nær fús kappkost'að þócknast þér, dygð yðka'og dáð þér kjæra.

## No. 173.

Lagið: Guds-Son kallar: komið til mín!

Dygða-veg leið mig, Drottinn! á, og dygða settu marki ná, styrk mig þess gá og gjæta! hverfi mér náð þín, Herra kjær! heims þessa gledi engin nær, mér þann missir að bæta.

2. Æ þegar glæpa añ eg lyst, úr mínu hjarta burtu mist, senn gledi fer á flótta; og þá rennur í þánka minn, það eg skal fyrir dómstól þinn, ángradur skélf af otta.

3. Kéñ mér, o Guð! sem gjætir mín, gánga fram eptir boðum þín, ærdugar lífsins leiðir, samvitskuñar þá frið eg fiñ, og fognuð ejlífañ, Drottiñ miñ! er þú útvoldum greiðir.

## No. 174.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Lífs-reglur hollar heyri menn, er himnasæld girnast ná; dauða ejlífð og dóminn enn, daglega þenkið á, nærsta mjog þetta nálgumst senn, naum er lífsstund að

fá,

fá; lagi þvi hvørr svo lifnad sin, ad lensi hann Gudi hjá!

2. Ovíst er þad hvørt úngur mann, ellidøgunum nær; ydrum sendi því undan hann, ádur enn daudinn slær; margur hastari helstund fann, heldur en meintum vær; lík í dag máské kallast kann, sá Köngur lifd'i gjær.

3. Voga þú ej fyrir vinskap manns, ad vinna hvad órétt er, því Guds er eins, en ecki hans, yfir ad dæma þér; þeim hylli Drottins Dómarans, daglega abla sér, þá reikning heimtar lýds og lands, linkind í málum tjer.

4. Ottastú Gud og unn, sem ber; annast náúnga þinn; óvin, þolugur, íllt ej gjør, øllum vert góðvikin, lát a tid nockud ágengt þér, áfram dygda-vegin; Drottni lífir, þá deya fer, sá deydir vilja sinn.

5. Umgengni þína og athøfn best, allskonar dygdum prýd; þolinmódur þá veitir verst, vidmóts hegdan sé blíd; allt sem þér dag hvørn yfirsjest, ydranin bæti þýd; en þad þú margt gott ógjort, létst, ángri þig fyrr og síd.

6. Stunda þú svo ad vera víst, sem villt ad haldinn sért, annars heims fylgir

oss þá síst, utan hvad hefur:n giort, í Herr-ans augsýn hvørn dag fyrst, hér svo ráð-vandur vert, ad þú ej skélfist þó af Krist, þá dæmist eins og ert.

7. Set þér lifnadar leidrétting, lífs medan audid er; sá heimsins varast vjel-in sling, vel þócknast Gudi ser, þacklæt-is er þad áminning, ef sæld hann géfur þér, en hitt ydrunar uppvakning, ef þú mótlæti ber.

8. O Drottinn kjær! sem sjálfur sjer, þá sælu'er girnumst sá; vertú oss nær, svo vinnum vér, vilja þíns jafnan gá; þín dýrd einskjæra heidrist hér, en himn-unn sídar á, sjáum þig vær og syngjum þér, sigur-vers englum hjá.

## No. 175.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

O Gud! hvad reikna mañinn má, mót þér almættis tignin há; er sképnu alla nærir; o hvørsu mikil er mín rírd, er eg hugleidi þína dýrd, sem leyptrar ljóst skjæru!

2. Af hér Guds engla himnum á, hiñ alkra mest'er litill hjá, Skapara sjálfum sínum; en eg hjá þeim? nær eckért er, á-

gjætid

gjætid mitt, þad fyrir ber, skjótt líkast skugga mínum.

3. Géf, Herra! ad eg æ hvört sinn, allan vidkañist breiskleik miñ, og stundi audmýkt læra, eins og Lausnariñ ljúfur hér, lífs og deyandi kéndi mér; þér, Gud! ber einum æra.

## No. 176.

Lagid: Kom Skapari helagi Andi.

Hú klagar! hol finnst þúngbært þér, þess stands, er snaudur lifir í; hvoss stundar lucku stærri og sér, stundar forgéfins eptir því.

2. Hvad viltú syrgja, hví med grát, hjarta þitt særa og vola hér? mun þad æ heill, vel géf ad gát! sem girnd vors hjarta dró ad sér?

3. Neyt þess, sem skamtar Gud þér, gjör, gjarnan hins sakna, er ecki fær; sína þraut hafa sérhver kjör, sérhvörjum hag sitt yndi grær.

4. Drottinn á allt, útbýtir bjorg, best med vísdómi soñum kañ, ecki sem ósk er óþarf morg, en þó sem hvorjum hollast fañ.

5. Viltú voga ad þenkja: þér, þá hañ gleymt ástríkur hann? þó ad til gods ej viñum vér, veitti hañ heill í sérhvorn rañ.

6. Syd þú lífinu eckt med, ánægjustúfu vyli þá, þitt ræktú kall, haf glad-bæ:t géd, gjor lífs-tóm nota best, sem má.
7. Drottinn! allt ástand mitt og mig, med glodu finni fel eg þér, ánægdur setjast sig, adstod þín jafnan fylgi mér.

## No. 177.

Lagid: A Gud alleina.

Til auds er eydist, af mol og rydi þér, gef, Gud! ej leidist, girndir hjartans í mér; en upp í hædir, augun mæni til þín, sem géfur gjædi, gjorvoll og fordar þín, þorfina því ad bædi, þú veitst og fyllir mín.
2. Agirndin arga, eitrud er lasta-rót, fædir mjog marga, misgjord og dæmin ljót. Sá má sæll heita, sem nægir lánid tjed, og ydju neyta, í kalli dyggur réd, best mun blessa sveita, blídi Gud! ánægd med.

## No. 178.

Lagid: Mitt hjarta! hvar til hryggist þú.

Himneski Fadir! hendin þín, helgi og heksi verkin mín, oll svo ad þóknist þér, ábyggju mig illri ver, ollu grandi jorda þú mér.

ínn sig skilur frá, til síns Guds og Skap·ara uppllda má; sú komi sæl stundin! mér komi'á hans fund! kom dauda kjær stund! kom mér á Guds fund!

## 9. Fyrirbænir.

### a) Fyrir øllum yfirhøfud.

No. 236.

Med sínu lagi.

Géf þíñi kristni gódañ frid, o Gud! um allar tídir, því eckert høfum vér añad lid, eiñ þú fyrir oss strídir, sjálfur Gud vor sannur Fadir!

2. Þú einn heilagann hug og rád, og hreint framferdi veitir; géf oss þad hjart'af þíñi nád, þíns ords alleina leiti, eptir því í øllu breyti.

3. Þó vor misgjerd sé mørg og stór, med nád vyrdstú þad bæta, í líkn og miskun lít til vor, lát oss et heguíng sæta, en fyri Jesúm mildi mæta.

4. Um þad bidjum vér øll þín børn, ad frid viljir oss géfa, med þinni hønd

og mildri vorn, móti óvinum oss hlífa, þér til lofs svo mættum lifa.

## No. 237.

Lágid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Gud! þú kant og vilt oss veita, vora þad sem bætir þorf, umadstod þína ecki neyta, allra blessa kall og störf! auki krapta oss þín nád, ad efla brædra heill med dád, ad vér gagnumst æ sem flestum, unn oss, Gud! vér hug á festum.

2. Kórónu þeim þú baudst ad bera, byrdi létta gjordu hans, þér til heidurs hann lát vera, heill ríkis og Íslands-fús sérhvorjum géfi gaum, sem gjorir rétt og sannleiks taum, dregur, ebli lán svo lýda; laungun hans sé þér ad hlýda.

3. Valdsi-jórn bjóda vyrdstú'á landi, vitsku þræda rétt ámid, ad vernda góda', en varna grandi, veit hjálpræði þitt og lid; þeim oss bygda lýsa'á leid, léna trygd, en forda neyd; sín embætti veit þeim vanda, vel af mætti' og nád þíns anda.

4. Blessa þá, sem bygdir yrkja, blessa þeirra sveita'i frid, med vel-lídun vyrdst þá styrkja, vid forsjálni, heidur, grid, hvorn ærlegann ydju-mann, í stétt sinni blessa hann!

hann! lát það vera sérhvörs sóma, sæmd vors edla lands og blóma.

5. Guð! þitt orð og andi leidi, oss á dygða vegi hér, aðstoð nema oss þú greiðir, ekkért megnað fáum vér; þér að þóknast unn þú oss, svo edlast mættum dýrðar hnoss, það trúlyndum þínum géfa, þjónum sídar munt án éfa.

## No. 238.

Lagið: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Faðir! þenk til þe[illegible]', er gráta, þúnga mótgángs undir hér; vyrðstú krapt þinn vera láta, vægð og styrk heim naudir ber; allra kjor um lá og land, leika, Guð! í þinni hend, þú kannt græda, þú kannt særa, þú kannt hriggja'og endurnæra.

2. Í verndar þinnar skjól'og skugga, skulum vér lifa'sorga frí, fyrir ótta, fyrir ugga, friði góðum jafnan í. Guð! þín miskun ejlíf er; eins framvegis géf oss hér, allt hvað þurfum og til þinnar, á vallt þénar dýrdarinnar.

## No. 239.

Lagið: Heidrum vér Guð af hug' og sál'.

Vors Herra Jesú verndin blíð, veri með oss á hvörri tíð; Guð huggi þá, sem

hrigdin flær, hvort þeir eru fiær eda nærs kristnina ebli'og auki vid, yfirvoldunum sendi lid, hann géfi oss øllum himna frid!

## No. 240.

Lagid: Gjorvoll kristnin skal gledjast nú.

Hin hátign, Gud! um eilífd er, af dýrd-ar-stól himnaña, í nád til jardar same þú sjer, sendir heill bygdum manna; æ! vér þig bidjum allir nú, ad vort fødurland blessir þú, veitir frid, velferd sanna.

2. Géf vorum Kóngi gjæfu' og ráð, gagn stunda ríkja sinna, ad elska frid en ebla dád, og þegnum heill ávinna, kall sitt ad rækja kénn svo hér, kórónu 'ad lífs í dýrd med þér, veitist og vegsemd finna.

3. Vors Kóngs Rádgjøfum veittu nád, vísdóm og adstod sanna, og stjórna þeirra ydn og dád, øllum til gagnsemd-anna, svo allir gódir eigniist frid, og med réttvísi geymist vid, árásum íllra manna.

4. Fadir! lát rigna foldu á, frjófgun-ar-krapt af hædum, umgird vort land og geym þad frá, grimmum hernadi' og skjædum; Gud! þú med speki gjørir allt, géf oss ad treysta þér ávallt, bæd'í medlæti' og mædum.

5. Géf þegni hvörjum gedjist hér, gaum skyldusinni'ad veita, á sjó og landi brauds sem ber, og blessunar þinar leita; ástundt svo med ást og dád, adstod, huggun og þarfleg rád, volúdum jáfnan veita.

6. Láttú oss, Drottinn! líkjast þér, og líf vort dygdum prýda, géf ollu því sem gjöra ber, góda framqvæmd, heill blída, fedurland rétt uns finnum vér, hvar fáum betri styrk eñ hér, þér, Fadir! þjóna' og hlýda.

## No. 241.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Frid veittú voru landi, voldugi Fadir! fyrr og síd; Yfirmoñum ollu grandi, og undirgéfnum forda lýd. Þá lídur ad lífsins enda, og linnir heimsins stund, géf oss þiñ guddóms anda, sem gledji vora lund! vort athvarf allt í heimi, og adstod Drottiñ er, hans hønd oss hlísi'og geymi, vid háska'og naudum hér.

## No. 242.

Lagid: Sólin, upprunnin er.

Lát landid frjófgun fá, fulla og sæta; réttinn sinn framgáng sjá, og sañs-

leiks gæta. Gud gefi mér, minn deild-
añ verd á medan, og til þess eg vid grof,
aflegg miñ ferda-staf, og held burt hédan.

## No. 243.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir!

Kóngsins lífdagar fjølgun fái, fyrri og
síd í blessun hér; hans stjórn lucku
og heillum nái, hans kyn blómgist, uns tíd
øll þver! o Gud vor Fadir! oss heyr nú,
vér æskjum þess hann blessir þú!

2. Um kríng hans sæti sífeldt skíni,
sannleiki og nád réttlæti med, þín adstod
hañ med heidri krýni, heill og fridur hans
lífsi géd; o Gud vor Fadir! oss heyr nú,
vér æskjum þess hann blessir þú.

## No. 244.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bread nú blundi.

Heidur, frid, lucku, lán og gjædi, legg
yfir þann, sem Kóngur er, landa-
stjórn hans og hjarta bædi, himneskt
Kóngur! líki þér; landa-búum hans legg
þau ráð, ad lucku fái og gjæfu nád.

---

## b) Á Striðs-tímum.

### No. 245.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

Sé Gud med oss, vér engri þá, ólucku þurfum qvída, hann má trausi setja hvorr einn á, í hrigdum mædu tída, hann sá gódi Gud hjá oss er, hann frelsar oss, því skulum vér, hans gladir hjálpar bída.

2. O Gud! Þú hefir opt þad gjort, er menn sísi vænta kunnu; já, opt þá ský umkríngdu svort, ùndælust ljós upprunnu; von þegar komin var í þrot, vér þinnar hjálpar fengum not, mein farga oss ei unnu

3 Vér bidjum þig, vor blídi Gud! bæn vora heyr, sem fadir! set takmark strídi, sorg og naud, send oss frid svo ad gladir, þitt frelsi sjáum, þitt í hús, þacklátur gángi hvørr og fús, þér prís ad hefja hradir.

Géf þinni kristni gódann frid. (sjá No 236.)

## c) Í skjædum Stór-sóttum.

### No. 246.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

O Gud! hvørs nád og adstod blíd, er þeim vís, sem þig bidur, þú sendir

ofs nú sorgar tíd, svo burt vor hverfur fridur; ángistin girdir um ofs því, allmørgum daudinn kastar í, grafar niðmyrkur nidur.

2. Ofs nidur-lúta'í naudum því, nýjar hørmúngar græta, daudanum hljótum hardtnær í, hvørju fótspori mæta, einn vinur flýa annan má, og bródir fordast bródur sjá, síns lífs sjálfur ad gjæta.

3. En verdi, o Gud! vilji þinn, var hann og er þad besta; vægdar þig bidjum vér hvørt sinn, von høfum á þér festa, þó ædi daudinn enn á ný, øllu til góda stýrir því, þín fødur-mildin mesta.

4. Þeirra styrki þinn andi ønd, er hédan sviptast ega, rétt þeim í dauda hjálpar-hønd, ad hafi trú ódeiga, von um fullsælu vek þeim hjá, værd andar lát þeim géfast þá, í fridi fara mega.

5. O Drottinn! minnstu mæddra vel, mildi gled alla þinni, veit ofs hreintrúad hjarta-þel, hrind frá ofs efa-sinni; géf ad í qvøl og kjætti vér, kappkostum ad ofs daudinn hér, vidbúna vel æ finni.

---

## d) Í Landplágum.

### No. 247.

Lagid: Jesús Kristur er vor Frelsari.

Réttláti Gud! hvørs hegníng strída, hrædilegt er ad sjá og lída; í þinni hendi er himin stór, hafid, jørd, eldíng, vindar, snjór.

2. Hvad sem þú býdur, hlýdir, kémur, hvad þú vilt afmá sjest ej fremur, árscæld, hallæri, audnu, pín, almáttug stýrir forsjón þín.

3. Æ Gud! sjá nú hvad yfir dynur, undir hørmúngum land vort stynur, þín børnin qveina og barma sér, bodi daudans þvî geist um ser.

4. Mønnum og sképnum missist fridur, menn og sképnur þvî stynja vidur, hvørttveggja þetta, Herra! þó, høndin almáttug þín tilbjó.

5. Lifandi Gud! sem lífid ljenar, og lífs heill vorri sjer hvad þénar, minnst vor í nád og vægd oss sýn, vér treystum uppá gædsku þín.

6. Bjód þú land-plágum, hættu, brigdum, ad hverfa burt frá vorum bygdum, fødurland vort og fólk allt hér, Fadir í miskun tak ad þér.

7. Bjód himni, jord og hafi líka, Herra! oss færa blessun ríka, forþéntu straffi vægg oss vid, vort land umgirdtú þínum frid'.

8. Géf oss framfør í gódum dygdum, gjæt vor vid syndum, qvol og hrigdum, vernd þín oss geymi' um votn og lond, vér felum oss í þína hond.

---

## e) Fyrir Deyandi.

### No. 248.

Lagid: Olldúngar Júda annars dags.

Þeim, sem daudinn nálægist nú, nádugi Drottinn! hjálpa þú, o hvad hørmúngin hardt þá skjer, hvad jardneskt er, ekkert þá framar huggar hér.

2. Þinn kraptur styrki þeirra lund, sem þúngann báru dags um stund, nú er lífs dagur enda á, æ! láttú þá, qvøldværdir gódar, Fadir! fá.

3. Enginn svo hladist eymdum hér, ad vonar-sjónir missi' á þér; send veikum hægd og legg þú lid, lát sálar-frid, lina ofraun og géfa grid.

4. Æ!

4. Æ! lát þá miñast á það vel, að nú síðasta'er rauna jel, og hvørn einn líka hyggj'að því, að heimi í, andstreymi við er enginn frí.

5. Þitt orð þeim sýni sannleik þann, sigur á deyð að Jesús vann, og að oss tilbjó samvist sá, þér sjálfum hjá; géf þeim traust setja allt þar á.

6. Veit þeim ørluga von og traust, um vegsemd með þér endalaust, og þá farsæld, sem er þér hjá, þitt auglit sjá, og meiri æ fullkomnun fá.

7. Vert þeirra Guð og géf þeim náð, gæð þá við andlát styrk og dáð; líkamans þegar bresta bønd, í blíða hønd, þína, Guð! meðtak þeirra ønd.



# III. Salmar til vissra Tima.

## 1. Ara-skipti.

Eiñ Gud, þér allir prísid, (sjá No. 31.)

No. 249.

Med sinu lagi.

Guds vors nú gædsku prísum, gódir, rettkristnir menn! med saunguni likn hans lýsum, lof segjum honum enn, fulltingi fyrir sitt, sem hefir af gædsku sinni, hvørr einn trú'eg þad finni, á þessu ári' oss veitt.

2. Miskunsemd hans og mildi, vér minnumst gladir á, og vyrdum' víst sem skyldi, hans velgjørninga þá, er hañ nú þetta ár, oss géfid hefir øllum, konum bædi' og korlum, og kuñugt fyrir oss stár.

3. Voldugur Drottiñ veitti, voru' á landi frid, allt fólkid eiñiñ fæddi, og gaf hvad þurfti vid, af hans miskunar hønd, því bygd og bæum vildi, blessun Fadiriñ mildi, géfa um gjørvallt land.

4. Oss

4. Oss hefir vardveitt alla, af fødurlegri náð, ef vildi'hann yfir oss falla, sem vor er mørg ódád, med jafnri mædu' og pín, fyrir laungu værum vér deyddir, af sorg og eymdum eyddir, hvørr fyrir syndir sín.

5. Si-ljúfur svo sem Fadir, svo er hann mildur víst, vér fáum frelst gladir, fyrir vorn Drottinn Krist, med, réttu traust' og trú; hañ af oss sviptir syndum, setur skamt hrygdar-stundum, veslum hjálp vís er sú.

6. Allt gott þú einn oss géfur, o Gud vor himnum á! allt hvad andardrátt hefir, allt skal þér lofgjørd tjá! í Jesú nafni nú, þín bidja børn eñ fremur: blessa árid, sem kémur, allra þorf-uppfylltú. :,: Í Jesú nafni nú, þín bidja børn eñ fremur: blessa árid, sem kémur, allra þorf uppfylltú. :,:

## No. 250.

Lagid: Herra! þér skal heidur og lotníng greida

Sitt á enda ár vors lífs er runnid, enn oss sendast Guds af nádar-brunni, líkn, hjálpræði, lífsins gædi, lán og nædi, hvarf þad hræda kunni.

2. Hjartad dansi, honum lofgjörd inni, hátt til ansi, túnga, maũvit, sinni, hvørr med gáti, gofgi kátur, Guds nád játi, lída'ej láti'úr minni.

3. Honum sálin blýdnt sverji vísa, hans vort málid, æ skal gjædsku prísa; vort þacklæti, veri hans mæta vilja'ad gjæta, ást svo ætíd lýsa.

4. Honum felum hagsæld árs komanda; hañ sjer vel um oss, hvad mun þá granda? oss hañ seka, ej útrekur, allañ speki, hans burt hrekur vanda.

5. Alvold mildin, ollu þú sem rædur! enn gódvildar sed oss þinnar gjædum; augda dygdum, hamla hrigdum, hrind burt stygdum, bú oss bygd í hædum!

## No. 251.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvørr sem kann.

Sitt nú er, útrunnid lífsins ár; lof sé þér, lífs Herra'og fadir klár! allt þig lofar endalaust, anda sem hrærir, vetur, sumar, vor og haust, vegsemd þér færir; hvør dags sól, heill veita'og gledi, heims um ból, hvervetna rédi, líkn og skjól, hjúfur oss tédi, Gud, hvørs mildi gofgum vér. :,: Tíd og eilífd heidri hann, hans kjærleik prísi. :,:

2. Greiða ber, Guð! fyrir liðna tíð, þakkir þér, þín geymdi' oss náðin blíð. Guð og Faðir vor þú varst, varnaðir grandi, umsjón fyrir öllu barst, í voru landi; fríðsemd af, fylltir og gróða, enn léttst haf, audlegð frambjóða, friður gaf, oss farsæld góða, allt í settri orðu stóð; :,: allt forsjónar auga þitt, áleit í mildi. :,:

3. Allir nú, enn selum, Drottinn! hér, allt hvað þú, oss hefir gefið hér, önd, líkama, auðnu, líf, öll vor heimkynni, Guð! vort athvarf, hjálp og hlíf, hönd geym oss þinni. Vel munt því, vor Guð! oss leiða, björg á ný, bygðum tilreiða, landi í, líkn, heill útbreiða, þér fulltreystum allir enn, :,: að þú blessir árið nýtt, oss sem nú gefur. :,:

4. Útbreið þú, o Drottinn! krapti með, traust og trú, til þín, að fáum sjeð, orða þinna ljóma ljós, leið villtum beina; dygð og vitska vort sé hrós, vegsemdin eina! gef oss frið, góðum að halda! send oss lið, sitt hverjum gjalda; alla við, ást, náð margfalda; af jörð' og hafi brauði' útbýt, :,: hvern með trú sín stunda störf, styrk, Guð! og blessa. :,:

5. Kóngs vors lönd, krýn farsæld, Drottinn kjær! þín sé hönd, þeim æ tik verndar nær; Valdsmenn þeirra vitsku prýð, veit styrk af hæðum, ad farsæla landa lýd, létta burt mædum! géf þeim sá, gledi þá kanna, ávoxt sjá, embættis aña, blessun sá, um bygdir maña; hvors eins blessa stétt og stand, :,: eiñ hvad bera ej orka má, adstodi fleiri. :,:

6. Géf oss nád, Gud! medan lifum hér, vort allt rád, vanda til dýrdar þér; oss í dygdum efli sú, afstýri föllum, í Jesú bidjum nafni nú, neyd hrind af öllum. Íslands lýd, almáttug leidi, forsjón blíd; farsæld útbreidi, árs hvors tíd, óhopp hjásneydi. Gud! þig heidri gjörvöll lönd: :,: þig vegsami ár og öld, allur lífs skarinn! :,:

## No. 252.

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Hock, godi Gud! vér færum, med gledisaungum þér, hátídar hljómi skjærum, hugkátir tjáumst vér; heyr med velþócknun þú, Fadir! þad lof, er ljódum, lypt muñs og sálar hljódum, á nýu ári nú.

2. Þú gafst oss lands og lída, ljúfañ, o Herra! frid, og lagdir blessun blída,

bjarg-

bjargrædi sérhvort vid; þitt vægja vís-
dóms ráð, oss hefir ætíð leidda, og alla
stígu greidda, med fødur mjúkri náð.

3. Þegar til þín oss snérum, þín misk-
un tók oss vid; af himni hresstir erum,
huggun þú gafst og frid. Hugkæti helgri
med, þér blíúgir þackir ydjum, þig, Drott-
inn! enn tilbidjum, þitt prísum gædsku géð.

4. Gjør nú, o Gud! þad bidjum, géf
oss blessun í ár, med oss í øllum ydjum, æ
sé þín gædska klár, hvørn blessa, hvørs
eins stand! lát vísdóm vaxa'og dygdir,
vellídan késji hrigdir, blessa Kóng, lýd og
land!

## No. 253.

Med sínu lagi.

Rís upp, mín sál! ad nýu nú, nýa lof-
gjørd uppbyrja þú, því nú er nýtt ár
komid, nýr skeinkur þér, nýgéfinn er, nýs-
runnid himna blómid.

2. Lof sé þér, Gud! fyrir lidid ár, lífs
heillin mín øll í þér stár, o þú, minn and-
ar kraptur, sem vægdir mér, svo enn eg
er, á nýtt ár kominn aptur.

3. Þú hefir verndad vedhlaup mitt,
vel svo eg gæti hnossid hitt, á nú umlid-
nu ári, líkham'og ønd, þín líknar hønd,
leiddi úr hættu'og fári.

4. Einn varstú traust og unun mín, ein mig verndadi gæðskan þín, eg géck í geymslu þinni, hagsæld og ró, þín hönd mér bjó, og huggun sálu minni.

5. O! mín sálar heill hjartanlig, haldtú því sama fram við mig, á ári inngángandi, handleidslan þín, sé hlífdin mín, við háska'og öllu grandi.

6. Ný miskun ári nýu á, nýa mér gveikt laungun hjá, þér einum þjóna, hlýða; mitt kall og stétt, trúr rækja rétt, rór þyggja', ef vilt, hid stríða.

7. Þá æfi árum hallar hér, hjástod best, Fadir! vertú mér, géf endíng glada nauda; athvarfid mitt, skal ordid þitt, eins í lífi, sem dauda.

8. Allt þad gott, sem mér mütir þú, almáttug hönd þín geymi nú, og blessi mig og mína, þitt andlit blídt, um árid nýtt, yfir mér láttú skína.

## No. 254.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Hockum vér Gudi gladir, af gódu hjarta, hug'og trú, allir sem iñsafnadir, érum í Drottins húsi nú; hañ oss gaf, líf, og lénti, líknsemd af, hvad sem þénti, ef hann svaf, allt sá best er henti.

2. Vor Gud! þér vegsemd tjáum, vard-veitslu þína fyrir og nád, framar eñ skyn-jad fáum, forsjón þín hefir ad oss gád; fyri hlíf, heilsu, grodur, hjálp víd kif, næring, fódur, þér eilíf, þock sé, Fadir godur!

3. Æ! fremur eñ þig bídjum, oss rétti þína Födurhönd, ad allt til lofs þér ydjum, andi þiñ styrki vora önd; auk oss dád, aud-gast dygdum, um vort lád, varna stygdum, í sorg oss nád, send frá efri bygdum.

4. Lát hvorn árs-dagiñ eina, æ kénna jafnan sést oss med, og meñ í ollu reyna, ad stjórn þín milð þá fær ásjed. Fadir! vér, forsjá þiñi, felum hér, lif, heimkyñi, allt hjá þér, adsted, blessun fiñi!

## 2. Missiraskipti.

### a.) Vor=Sálmar.

### No. 255.

Lagid: Gædskurlkosti grædari minn.

O Herra Gud! eg þacka þér, þú hefir hlíft og stjórnad mér, á nú umlidnum vetri, háska og slisum varnad vid, veitt bless-

blessun, nœga hlísd og lid, mér og minu adsetri. Drottinn! Drottinn! eg kann eigi, út ad segja ástar anda, miskunar þinnar mér til handa.

2. Samt hef'eg syndgad mikid og mjeg, móti þér, hátign guddómleg! minn Gud! minnstú þess eigi, lát yfirgnœfa gœdsku þín, gjordu enn framar vel til mín, hvad eg efa aldreji. Drottinn! Drottinn! mín hefir gjœtt og meinin bœtt þín miskunn ríka, unn mér hún fylgi'á eptir líka.

3. Missirid er nú umlidid, en hid nœsta tekur vid, því bid eg: Herra hýri! ad mig leidi þín hjálpar hond, hœttulaust yfir mein og grond, og athofn allri stýri; Drottinn! Drottinn! ad ondu minni máttur þinn og mildi gœti, líkaminn somu lidsemd mœti..

4. Inngáng bœdi og útgáng minn, ásamt og hegdun sérhvort sinn, farsœl þú Gud minn gódi! mér og minni svo stjórnastétt, ad stund'eg hana vel og rétt, í þinnar forsjár flódi. Drottinn! Drottinn! leid þú mig um lucku stig frá lasta voda, vyrdstú mig œtíd í ollu stoda,

5. Allt hvad eg gjori og gjora lœt, Gud minn blessadur! ad því gœt, svo farn-

farnist farsællega; reisur mínar og ráðaþag, ræðu og tilstand nótt og dag, ãnastú alla vega. Drottiñ! Drottiñ! leyf þú ei eg lifs á vegi lostum siñi, mig fel eg þér og mitt heimkynni.

6. Leið þú mig, Guð! þañ vissa veg, sem vísa orð þín guddómleg, um alla æfi mína, geym mín í sañri guðrækne, géf þú að eg iñlæstur sé, í vernd og voktun þína. Drottiñ! Drottiñ! leyfðu mér, að lifa hjá þér og lausnar degi, fagna, náð þína svo mikla megi.

## No. 256.

Lagið: Gudi lof skal ond mín inna.

Vetur er enn á enda, eilíft lof se þér, Faðir kjær! þú létst oss luckn henda, og lagðir það til, sem þurftum vær; þú hefir oll vor efni, ãnast við fári' og nauð, verndað í voku' og svefni, og veitt oss daglegt brauð; varnað voða og fóllum, veðra og húngurs pín, afstýrt stórslisum ollum, og stoðað vel bornin þín.

2. Engiñ kañ yfirvega, alla blessun sem veittir þú, andlega og stundlega, á þessum liðna vetri nú; heilsu, lán, heill, bjargræði, hofum enn þegið vér, margs-

hátt-

háttar gagn og gædi, gafst þú oss, Drottiñ! hér; þú hlífdir háska og grandi, héldst bygd og sképnum vid; þú veittir voru landi, verndun á alla hlid.

3. Þacklætis offrid bjóda, byggdú nú af oss aptur á mót, fyrir ást og ástjá blída, øll velferli og nádarbót; svo fyrir Son þinn mæta, sendañ til lausnar oss, þú létst hann borga og bæta, brotin vor øll á kross; í hönum allt hid góda, oss veittir, Drottiñ! þú, þér gjørum þackir bjóda, þad er vort offur nú.

4. Hvørr kañ ad tjá og tína, trúfesti þiñar sérhvørn vott? eda med ordum sýna, allt, sem landsbúum veittir gott? auga þitt ad oss gádi, eyra þitt heyrdi oss vel, høndin þín hjálpa nádi, hýrt var þitt ástarþel. O þú, Drottiñ alvaldi! allt gott er létst í tje, hér og um allar aldir, æfinlegt lof þér sé!

## No. 257.

(Eptir gódann Vetur.)

Lagid: Kjær Jesú Kriste!

Guds gædsku prísa, geymar, høf og stord, lof hans auglýsa, lifandi mañ a ord; himnañ a hersveitir, Herrans votta dád,

ráð, allt gott eñ oss veitir, ástin hans og náð; merkin tída hentug hañ, hegum Þýða setja vañ, vorum hlýða kjörum kañ, kjæla'og sólar-bráð.

2. Oss eñ framleiddi, eitt um vetrar skeið, Gud, og lífs greiddi, gánginn heim í leið; vodanum afvendi, vedrin gjördi hæg; leika lét í hendi, lífsins medöl þæg. Gaf farádum huggun hañ, hressing þjáðar jafnan fañ, oss í náðum veitast vann, vegnun gégn og næg.

3. Med hvörju má eg, miñ Gud! heldra þig? ekkert til á eg, áttu sjálfur mig; þitt eg þér skal bjóda, þad er mín önd og líf, prís þiñ lystugt ljóda, lán hvört rëyn' eda kíf. Offnr greid'eg þackar þér, þig tilbeidi: vertu mér, lífs um skeið, sem eptir er, unan, von og hlíf!

4. Ný náðar gædi, nýn sumri á, líf, fæt og fædi, Fadir! vyrdstu ljá; gagn, sem gengid stydur, géfi'oss himinñ, frami, heilsa, fridur, fylgi'oss út og iñ. Fénadar hjörd ej fiñi naud, færi jördin ölln braud, lands ungjördin láti aud, ladast ad oss sinn.

5. O Jesú! á þér, öll mín grundast von, haf bústad hjá mér, heilagi Guds Son!

Son! einkum lífs vid lotin, láttú anda þinn, þegar eg máttar þrotinn, þenki'á dauda minn, huggun sedja hjartans þel, hugañ gledja deyds vid el, heim þá qvedja kann eg vel, og koma í himininn.

6. Þar sífeld sæla, sem ej bregdast kañ, og líf indæla, æ vid leikur mañ; alla'án enda gledur, ástin Drottins heit, unun ædstri medur, í þeim dýrdar reit, eymda róli frelsud frá, fyrir stólt lambsins þá, høfud-bóli himins á, heiløg dvelur sveit.

## No. 258.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Lof sýngid, gøfgid gladir, Gud vorn Skapara príса ber, sem med oss fer, sem Fadir, framleiddi jørd og himna her, gøfgid þann Gud, hvørs haldist, grunnlausa hefir nád, frá ejlífd og um aldir, allir hans miklum rád, vor-føgnud blíðt útbreidir, bod þitt, o Gud, vor Gud! þér lofgjørd, þøck og heidur, því sýngur ønd vor glød.

2. Voldugur, vís og gódur, veturiñ, Fadir! létst frammgá, her náttúrunnar hljódur, hvíld tók og sem í dvala lá, med vor-blóma blídum vakti, bendíng þín hann

hann til lífs, hýrt brosti og burtbrakti, blíd sól þrant vetrar kífs, il-gjöfum enn útfleytir, öllum því gledi ljær, fjör-kreísíng, frjóssemd veitir, farsæld um bygdir grær.

3. Gud, allrar gjædsku lindin, gledst enn náttúran öll vid þad, í daggar-dropum sendir, dýra frjóssemd hér ofan ad; strax blómi skógur skrýdist, skaut jardar ný-sked læst, ínndælum urtun-prýdist, engid er blómstrum glæst, lopt hlýtt, ylmur ágætur, öll lada til vor hnoss, vor-gjæda' er, Gud! þín lætur, gjædska útbýtast oss.

4. Um vollu' og grænar grundir, gjædsku þinnar berg-mála róm, ótal þúsund þúsundir, med þrá-samstilltum gledi hljóm; lof þitt um loptid dunar, lofa þig blómstur stráð, fjall, laut og lækja buna, lof róma þínn nád, hvört hljód fögnudi fyllt er, fagrann æ sýngur prís, oss því ad þacka skyldt er, þína trygd, Gud alvís!

5. Ej skal þó túngan eina, algódi Fadir! prísa þig; hjartad í ástum hreina, hefji med gladværd til þín sig! sífeldt skal vor ósk vera, med verkandi ást og dygd, þér vora þöck ad færa, þjóna gladir med trygd, vér lífs töm vort þér helgum, vor skal á-

stundan sú, ad lærum, fúsir fylgjum, Fadir! því skipar þú.

## No. 259.

Lagid: J Jesú nafni uppstá!

Nú upprann þín sumar-sól, vottur til um eilífd eigi, ad í minni gröf eg þreyi, vor Gud, athvarf vort og skjól! úr þam vetrar fölum færir, fold þín alvöld máttar-hönd, uppþyngd sképnan hýr sig hrærir, um hafid, lopt og ilund lönd.

2. Gud! þín lindin gædsku ný, med ár-dögg foldu fredna kjætir, frjófum med qvöld-skúrum vætir, sólar vermda hollum hlý; tímar árs í ordu', er settir, enn nú skiptast, lof sé þér! þraut skammdægra ljós þitt léttir, líka af nordurbúum hér.

3. Þú upplýkur þinni hönd, gledur, blessar, gnægtum fyllir, gjæda þinna'en harma stillir, þeirra sképna', er þágu önd, þín af feiti'og frjóssemd drjúpa, fótspor þá í skýum gár, ástar undra afgrunn djúpa, opid hvörri sképnu stár.

4. Lautin, breckan brosir hver, sád-gros, ótal urtir gróa, oss ad sedja'og gledja þróast, skógur björg og skjólid lér; í ótal lækjum ad oss streymir, unadsemdum

nátt-

náttúrann, af þér fyllt, þá gledi geymir, gnótt, er tæmast aldrej kann.

5. Hvorr finst gódur, Gud! sem þú? trúfast, erlátt hvar er hjarta, á hvorju Fodur-nafn eins skartar? vér undrumst þína ást og trú; án þín, Gud! vér glatast hljótum, glæpugt líf vort til þess vañ, vér þó lífs og nádar njótum, nægta, er mildi þín oss ann.

6. Ollum lýsir ljósid þitt; enganñ vantar ástar gjædi, o! þín nád er vort lofqvædi, vaþín vægd, sem oss lét fridt! Gud tilbidjid, gøsgid, qvedid, Guds nád prísid, vyrdid, meñ! hvad margt gott vor Gud oss tédi, gott hvad margt vill tjá oss eñ.

## No. 260.

Lagid: Gudi-lof skal ond mín inna.

Nú skal enn í Guds trausti, uppbyrja nýann missira hríng, líssins Hertogiñ hrausti, hafdú gát á oss allt um kríng. Nýa blessun, nýtt sumar, nú lát oss færa hér, hvad um lopt, haf, jord sveymar, hlýda má, Drottinn! þér; lát nýa nádarstraumna, nýkomna frjófga tíd; vyrdstú vernda og geyma, veikstaddann Íslands lýd.

2. Géf þú oss farsæld góða, géfðu oss enn í landi hér, af jörðu gras og gróða, gagn sjáfarins og heilsu-kjör, blessun um bygðir allar, bjóð andar, líkamans, eñ heillum oss tilfalla, ábúum þessa lands; svo glaðir náum njóta, næríngar, lífs og auðs, þá skal ej þeckin þrjota, þágu vors daglegs brauðs.

3. Kóngsins tign stöðug standi, styð þú, Drottinn! hans Ríkis-ráð, friðurin forði grandi, forsjón þín blessi Ísa-láð, völd, kirkju, kristiñdómiñ, kéñíng, trú, líf vort hér, ejlífi lífsins ljóminn! leið allt til dýrðar þér; vorn iñ- og út-gáng bæði, öll verk og ferðalag, bygðir og öll bjarg-ræði, blessa þú nótt og dag.

4. Alla lands Yfir-herra, í þína fél-um verndar-hönd, eign og embætti þeirra, og alla meñ um þessi lönd. Íslands vörn eñ veri, þín völdug hjálpin sterk, oss svo hér enginn gjeri, áhlaup nje skémdar-verk; þig ef meñ vita vera, vorn skjöld á alla hlið, þá mun alls enginñ þora, oss spretta fíngri við.

5. Í stjórn og umsjá vörri, ytri og iñri friður sé, ytri í höndlun hvörri, hinn góð samvitska lát't tje; en sá ejlífi friður, oss géfist himnum á; þín hjörð, o Herra!

hidur, hana í náð lít á; vor heill, athvarf og verja, vertú í landi hér; svo skal Sumarið birja, með sonnu traustí á þér.

## b) Haust-Sálmar.

### No. 261.

Lagið: Gæðskurlkasti græðari minn.

O Guð heilagur, heilagur, heilagur Guð og Drottinn vor, blessaður um aldir alda! þér offra eg þakklæti nú, þig ákalla með bæn og trú, þér vil eg gott lof gjalda, Guð minn! Guð minn! skyldt er mér að þakka þér og þig að prísa; upp, upp minn sangur, Guðs ást að lýsa.

2. Lof sé þér heill og hjástoð mín, himneski Guð! fyrir miskun þín, og veitta velgjörð alla; sem nú umliðna sumar tíð, sýnt hefir mér þín gjæðskan blíð, og lét mér allt vel falla. Guð minn! Guð minn! mig hefir leidt, og meinum eydt þín mildin ríka, bygð mína varðveitt og blessað líka.

3. Upplokinn fann hinn ástar brunn, eg og þitt náðar djúpt afgrunn, minn Drottinn! mér til handa, þaðan kom mér öll þerfin mín, því prísa eg nú gjæðsku þín, og vil þér vegsemd vanda. Guð minn! Guð minn!

allt hvad er, í aumum mér, þér einum unni; lof þitt sé jafnan í mínum munni.

4. Allan mig, Drottinn! offra'eg þér, á nú komanda vetri hér, og alla æfi mína, lát mig umflýa lasta verk, leidi mig jafnan hend þín sterk, geym mín fyrir gjædsku þína. Gud minn! Gud minn! hvar eg er, og hvert eg fer, og hvad eg gjöri, skil aldrei vid mig, Hirdir hýri!

5. Allt þad, sem ecki þócknast þér, þad vyrdstú taka burt frá mér, vel svo þínum vilja hlýdi; en þad, sem þér er þægilegt, og þénar til þinnar dýrdar frekt, géf mér þad, Gud minn blídi! Gud minn! Gud minn! verk mín öll, og vegnan höll, sem mál og minni, farsælist af þér úti' og inni.

6. O Herra! tak þad allt frá mér, er mér kann snúa burt frá þér, svo ockur enginn skilji, o Drottinn! géf mér aptur þad, er mér kann þér ad snúa ad, er þad minn ósk og vilji. Gud minn! Gud minn! vyrdst æ hér, ad vera med mér, minn Herra hýri! eilíft lof sé þér, Drottinn dýri!

## No. 262.

Lagid: Gudi lof skal önd mín inna.

Lof sé þér, Drottinn dýri! dögum og öldum stjórnar þú; há-sumar tíminn hýri, hann

hann er kljádur á enda nú; o hvad ótal mørg gjædi, ofs gaf þín nádin blíd, lif, heilsu, føt og fædi, farsæla sumar tíd, trú klára'i kyrrd og fridi, kristiñdóms medøl øll, þín hjálp vard hvørjum ad lidi, svo hrepptum ej slísa-føll.

2. Med mjøg margfeldum gjædum, miskun þín krýndi sumars tíd, frjóssemd af himna hædum, hefir á jørdu audnast lýd, land og sjór gagn og gróda, géfid hefir ofs nú, áhlaupi illra þjóda, ofs hefir fordad þú, yfir- og undir-stéttir, á sá þín milda hønd, í þýna umsjón settir, almennilegt tilstand.

3. Þér gjørum þackir færa, þ—di Fadir! af hug'og trú, lof þitt eblist og æra, vid allt þad, sem ofs veittir þú; eñ hvad á hvørjum degi, høfum styggt veldi þitt, miñ Gud! miñstu þess eigi, mis-verkin øll géf qvitt, lát ofs ej glæpa gjalda, géf hejløg þeckjuunst ráð, Fadir! vid ofs framhalda, fulltíngi vyrdsi' og nád.

4. Herra! lof þér sé þýdi! þinn fyrir Son, er dó á kross; þú blessar lønd og lýdi, læsing atviñu upplaukst ofs; fyrir lif og lucku alla, lid, heilsu, vernd og fé, er þú létst ofs tilfalla, æfinleg dýrd þér sé! svo skal sumarid enda, sýn ofs þig nádugañ

og vyrdist oss veturiñ senda, vægañ og farsælañ.

## No. 263.

Lagid: Rís upp, mín sál! 'ad nýu nú.

Sjá! blómin sumars á burt er, skæddast vetrar búníng' fer, náttúran, dymña dægra, og hretin hørd, lífs lada hjørd, leita ad skjóli þægra.

2. Sjá! vér medtókum sumri á, svo margfold gjædi' af landi' og sjá, bjuggumst vid lopts óblídu, bjuggumst vid þørf, vor bæa størf, budu ad verjast strídu.

3. Sjá! ad lífum og sérhvad gott, sem þegid høfum, gjædsku vott, þeckjum Drottins dásamañ. Oss hættum af, hreif, blessun gaf, hann leiddi' oss alla saman.

4. O Gud! þig prísar sinni' og sál, sérhvad, sem bærir raust' og mál, og sképnu skarar snjøllu; þér þackar allt, lán þúsundfaldt, þú sem vidheldur øllu.

5. Vertú vor hlíf, heill, unan øll, allt hvad lifir um dal' og fjøll, til þíñar mildi mænir; géf blessun, braud, burt vísa naud, og bøli, sem ró oss rænir.

6. Ad lifa svo ad líki þér, léna oss styrk, svo fáum vér; folnadri foldu medur, ad hvílast vært, uns hróp þitt skjært, heimiñ til lífs uppqvedur. No.

## No. 264.

Lagid: Syrgjum vèr ei ſáluga brædur.

Oll náttúran enn ſer ad deya, ilur horfinn, ſaungfuglar þeigja, kulid ſkékur qviſtu ber-ſnayda, qveina ſtráin ſolnud mót dauda.

2. Híngad ſol dyru horn-auga vendir, hvort geiſlana blíd fyrri ſendi, foldin ſtyrdnar, fyrr ſem réd gróa, felur ſkugginn ljós, jordu ſnjóar.

3. Enn lifir þo aldanna Fadir, óumbreyttur, forſjá hans gladir, felum vèr oſs, fullſtrauſt þad gétur, fridad enn og geymt hér í vetur,

4. Nockrum yndis nægtum þó ſvipti, náttúrunnar dauf hátta-ſkipti, alvold ſpeki'og elſka nærgætin, áqvardadi hvad ſem oſs mætir.

5. Veturinn er velgjord frá Drottni, vakir hans forſjá, aldrej ſvo þrotni, þad hvorri til gagns er og góda, hans gædſka mun ſképnuñi bjóda.

6. Hañ baud vetrar-húmid oſs færi, þær heillir, ſem gledji og næri; Herrans nægtir hollar oſs fæda, hann réd oſs mót vetrinum klæda.

7. Foldar í skauti frednu hann lætur, fclast qvikar urtanna rætur, uppþýngdar þá út vetri hallar, í æsku-blóm nýtt lífsins hann kallar.

8. Þinnm enginn þeckir af gjordum, þúsundasta partinn á jordu, en af því stóra, sem vér þó sjáum, sanna hjartans ánægju fáum.

9. Fagnid! ord Guds fúsir ad geyma, Fadir ormanna kann oss ej gleyma, stig hans boda gángid hug-gladir! Gud er sumar og vetur vor fadir.

## No. 265.

Lagid: Gudi lof skal ond mín inna.

Kominn er kaldur vetur, kom þú til med oss, Drottiñ minn! líf vort, eign og adsetur, anniſt miskun og kraptur þinn. Oforum, illum danda, andstreymi, sorg og þrá, styrjaldar stórum voda, sturlun samvitsku frá, húngri, drepsótt, hallæri, hardindum, dýrri tíd, forda oss, Fadir kjæri! fylgi oss nád þín blíd.

2. Géfdú oss gódann vetur, géfdú oss hagstæd vedrafoll, géfdú oss gott adsetur, géfdú oss þarfa medol oll; annastú eckjur allar, og fodurlausañ hvern, añ-

aſt

ast þá á þig kalla, aumstaddra sértú vorn, unn oss þitt ord ad læra, og synda fordast vél, oss hjá þér unn ad vera, uñ oss ad deya vel.

3. Blessa þú bygdir maña, blessud velferli lát oss fá, blessudu braudi saña, blessun Guds orda uñ oss ná; blessa vor brjost og siñi, blessa vor verk og mál, blessa vor bæa kyñi, blessa þú líf og sál, blessa þiñ barna skara, blessa þú hús og meñ, blessa oss, vondu vara, veturiñ blessadu' eñ.

4. Frá ædstum tignar tróni, þín trúfost nád eñ gæti vor; þér hvorr eiñ hlydiñ þjóni, hønd þín oss leidi sérhvort spor; iñri og ytri fridur, eining í hvorri stétt, haldist oss einunn vidur, og allskonar høndlan rétt; geym oss vid glæpa-føllum, grandi, fári og neyd, sídan úr eymdum øllum, í eilífa dýrd innleid.

## c). Eptir gott og árdsamt Sumar.

## No. 266.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvorr sem kann.

Hvor Gud! er nú jardyrkjan hér, útendud, allir því færum vér, þér, vor Fadir! þøck og prís, þú oss blessadir;

sjorn

stjörnin þín er væg og vís, vér syngjum gladir! frjófgun lands, forsjón þín greiddi, gagnsemd manns, góda tilreiddi, sképnunni hans, skadsemd fráleiddi; lífs-bjorg sofnud saman er. :,: Allt hvad hefir andardrátt, einn Gud vegsami. :,:

2. Sól þín skein, sannblý um hvolfid blátt, kulda mein, kroptug, í hvørri átt, burttók hún, en himininn, blýtt regn oss færdi, breiddi jord út barminn sinn, blómleg gres nærdi; yrktum vér, ardsama reita, venin her, vorn gladdi sveita, Gudi ber, greida þock veita, starfid borgad vort er vel. :,: Allt hvad hefir andardrátt, einn Gud vegsami. :,:

3. Lof sé þér, lausnadir, Drottinn! þú, allt vort hér, erfidi'og mædu nú, ydni hjá þér ávallt fann, ást og nád kjæra, heill létst þú í hvern einn rann, himininn færa, víst ert þá, verndarinn þjóda, sem vilt oss ljá, vætu, þurk, gróda, er þér hjá, upphaf alls góda; þér ber æra þock og prís. :,: Allt hvad hefir andardrátt, einn þig vegsami. :,:

## No. 267.

Lagid: Í dag þá hátid holdum vér.

Lof sé þér, hjartans hróp vort því, heyrdir þú, Fadir þjóda! starf vort borgar nú

blíd á ný, blessan af jardar gróda, hvört stráid, lauf og blómstur ber, berlega vitni'ad mikil er, Drottinn! þín gædskan góda. Vér þockum þér, þig lofum vér!

2. Heyskap vorn blessad hefir vel, hönd þín ad þessu sinni, því sýngjum vier med þacklátt þel, þad medtak af nád þinni; géf oss forsjálni'ad gjarnan hvörr, gáfur sem veitti nád þín or, á bestann hátt brúka kynni, og þacka þér, þig prísa hér.

3. Lát vorar hendur bjóda braud, bjarg-þrota þurfa-mönnum, svo léttum undir ann'ra naud, med ást og kjærleik sönnum; þegar vér afgángs höfum hér, hugsa lát oss, ad skyldugt er, bágstöddum bjarga grönnum; svo þockum þér, þig prísum hér.

4. Líf medan varir lát oss hér, líkjast í kjærleik hreinum, í fögnud himna framar vér, fullkomnun hans þá reynum, þó kunnum nú þinn kjærleik sjá, klárlegar skín hann himnum á; þér sé Gud! æra einum; vér þockum þér, þig lofum vér!

## No. 268.

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Vér þockum þér, hinn gódi! þig prísum vér, o Gud! ad þú af þínum sjódi, þarf-

þarflegt oss veitir braud, oss geymir æ og nú; allt þad, sem fram þú færdir, forsjón þín ávallt nærdi; gódur, vor Gud! ertú.

2. Land vort blessa, lífs Herra! legg fædu' á sérhvørt bord! lát blessun þeim ej þverra, sem þitt vardveita ord! ørbirgum adstod tjá; géf audgum gjafmildt sinni; géf eining, svo menn kynni, síns njóta' í fridi fá!

---

d) Eptir bágt Sumar og í hardæri.

No. 269.

Lagid: Jesús Kristur er vor Frelsari.

O Gud! sem rædur øllum gjædum, af jørdu, vøtnum, sjó og hædum, þín hønd útbýtir, Herra kjær! hvørskyns gáfum, sem þyggjum vær.

2. Allt vald þú, Drottiñ! ætíd hefir, øllu, sem lifir, næríng géfur, þegar upplýkur þinni hønd, þá mettast allt hvad dregur ønd.

3. Þegar útsendir þú þinn anda, þá nýast ásýnd jardar landa; en ef krapt dregur undan þinn, oss sparar jørdin gróda sinn.

4. Í sumar margur sá og reyndi, síun' örlæti nú að leyndi, náttúran annars nógu rík, nenu er verðskuldud af oss slík.

5. Vér kjósum gjæða kjør, en sýnum, kaldsinni mikið gáfum þínum, o Gud! refsa því ej, sem ber, enginn fyrir þér saklaus er.

6. Géf oss ánægdu en med sinni, úthlutun móti taka þinni, og óski svo vort andvarp stillt: æ verði, Drottinn! hvað þú vilt!

7. Í hug til þinnar hjálpar stefnum, hagtær þú vorum litlu efnum; bjorg lífsins drýgi blessan þín, bjóð frá oss víki húngurs pín.

8. Blessa vort land og bæg frá mæðunni, bjóð þú einnin að rík af gæðum, opni náttúran oss sitt skaut, og við hallæris fordi þraut.

9. Til þinnar, Drottinn! mildi mænum, miskun þín hyggi' að vorum bænum, veit þú oss hjálp mót voða' og deyð, vertú vor Gud í lífi' og deyð.

## No. 270.

Lagið: Kom hér; mín sál! og kynntú þér.

O Drottinn kjær! hvað veitstú vel, vanqvæði gjorvöll mín! mér hjálpar æ

hvar helzt eg dvel, hjástod og gjædskan þín, haldt mér stødugum vid þinn veg, víst þín af hjarta'ef leita eg, ró géfst, en raunin dvín.

2. Mig þó heimsæki margføld naud, mædan ef ángra fer, þó daglegt hljóti'ad bresta braud, svo bañist naudþurft mér, raskast þó ej mín hugar-hægd, hef eg alls-konar gjæda-nægd, þvi Drottinn líkn mér ljer.

3. Haf því í skorti gladvært géd, grátin og hugsjúk ønd! fimm þúsund litlum mat því med, mettadi Jesú hønd; Herrañ skérf þinnum hefir ej gleymt, heldur þér nóg til vista geymt, þó úrrædi virdist vønd.

4. Hvad hañ þér gagna sjálfur sjer, sannlega muntú fá, heims nægta þó ej heppnist þér, herra-bord vid ad stá, lát þér nægjast í lægra sess, lífs uppheldis ad neyta þess, sem skamtar hønd hans há.

## No. 271.

Lagid: Gædskuríkasti grædari minn!

Þad er svo margt og mikils verdt, miñ Drottiñ! sem þú hefir gjørt, mig vid um mína daga; allt var þad gott, eg þacka þér, þín forsjón mild útbýtti mér,

hvs, sem best hér nam haga; Fadir! Fadir! veit' lid mér, þad eptir er, og øllum líka, guddómur þinn og gædskan ríka.

---

## e.) Eptir allgódar og ardsamar Vertídir.

### No. 272.

Lagid: Gudi lof skal ønd ,mín inna,

Frá þér, ljósanna Fadir! flýtur øll gjøf, sem nefnist gód, vér sjáum vonargladir, þú veittir allt, sem hentar þjód, á þitt orlæti mænir, allt hvad lífs hræríng ber, hæd, vøtn, laut, hálsar grænir, herma oss: stórt þad er, hafid baudst heita skyldi, hirdslu audæfa bín, þadan þín midlar mildi, mørg gædi sképnum sín.

2. Þínu lífs eptir ordi, ad þeirri hirdslu søfnumst vér, sem børn ad fødursbordi, blessunar þiñar leitum hér; eñ gaf þín ørlát mildi, oss þadan gódann plóg; hvørr er, sem ecki skyldi, uppþrópa: þú gafst nóg! dýrd sé þér, Gud! sem géfur, gott allt til sjós og lands; allt hvad andardrátt hefir, ebli prís Skaparans.

3. Hvørr kann þér, Herra! nægja, herma vegsemd og þackargjørd? þín safn-

ar forsjón fræga, fiskum hafs, sem menn sauda-hjörd, midt í sjós ólgu eldum, opnar sig hönd þín góð, med gæðum svo margfoldum, mettir þú landsins þjóð; því hættulegri heita, hér vor ersidis kjor, þess betur brátt vorn sveita, þín borgar mildin or.

4. Lof þér, Gud! allir inni, allt má nefna þíns kjærleiks vott; lát oss nú líkjast þini, líknsemd í því, ad gjora gott; géf oss med gáfum þínum, góda ánægd og frid, hallæri, háska, pínum, Herra! oss forda vid, géf ad vér lifum gladir, greid þú oss allt í hag, vér þinni forsjón, Fadir! felum oss nótt og dag.

## No. 273.

Lagid: Jesú Kriste! vér þockum þér.

Prísi Drottinn allt hvad er, öllu sem næring géfur; af brunni hassins bjorg oss ljer, blessad enn land vort hefir; o Gud! hvad værum vér án þín? vyrdist oss framvegis gledja, med þinni líkn; uns líf vort dvín, lands-heillum gódum sedja. Lát oss aunt ad gjora gott, gjof þína svo rétt brúkum; þacklætis sýnum þar med vott, ad þurfamanns tár afstrjúkum.

um. Drottinn! þér einum dýrdin ber, vér þockum þér, þig lofum vér!

## f.) Eptir bágar Vertídir og í Fiskileysi.

## No. 274.

Lagid: Hvorr sem ad reisir hæga bygd.

Gud! þinni stjórnun hæfir hrós, í hrigdum, skorti, mædum, þín hefir hondin líknar ljós, lykil ad ollum gædum; nær þeim upplýkur lætur lýd, luckusæld hrepp' á hvorri tíd, af hafi, jord og hædum.

2. En ef þú lykur aptur þá, orbyrgdin víss er líka, lífs næríng hverfur landi frá, læsist hafs-skautid ríka; nálgast þá húngurs neydin sár, nú hefir margur þetta ár, mátt reyna mædu slíka.

3. Fésjód sinn hafid furdu tregt, feck oss, vér megum klaga: líkhams ad lúder fjörid frekt, forgéfins marga daga; en verdi Drottinn! vilji þinn, veitstú hvad þínum hvort eitt sinn, bornunum hellst kann ́aga.

4. Vér moglum ecki móti þér, miklu heldur oss fleygjum, í þinn forsjónar fadminn hér, felum oss þér og segjum: æ Fadir!

ir! mikla mildin þín, miskuni oss og fordi þín, vongódir vér svo þreyum.

5. Pad oss ej lídi þánka úr, ef þykir atvinnu bresta, ad skinid fylgir eptir skúr, og skort opt nægtin mesta; þú hefir allt í þinni hönd, þér felum bædi líf og önd, neyd bæti nád þín besta!

---

## 3. Morgun-Salmar.

### No. 275.

Lagid: Pér þackir gjörum.

Ljómar ljós dagur, lífs kjætist hagur; sjá! ljós sveit vekur, sól nótt burtþrekur; enn Födur allda, eilífum gjalda, þöck skal þrefallda.

2. Lof hátt skal hljóma, hjálp og nád róma, Guds geymslu bestu, gædsku nægd mestu; holgódir þreyum, þar til burtdeyum, synd hatur segjum.

3 Vort kall vel rækjum, vort gagn rétt sækjum, óttumst Gud eina, elskum dygd hreina, sátt og samlyndi, sem er lífs yndi, bæn og blídlyndi.

4. Verum vongódir, vel þolinmódir, þrautir af þreyum, þó hér stríd hejum,

sist Drottinn sefur, sinni náð hefir, heit-
ið, hjálp géfur.

5. Mitt líf, minn andi, mín raust
syngjandi, o Gud upphæda! um þinn
prís ræda, vel sé við tamin; vegsemd
skal samin, þér og þock, Amen!

## No. 276.

Lagid: Gædskurik-sti grædari minn!

Med fridi nóttin fráleid svert, fyri mér
aptur sólin bjort, lýsir og gladt mig
gétur, í mætti'og gædsku mikill þú, med
krapti þínum, Gud! eñ nú, oss tíd og tak-
mork setur; dýrd ber, því þér, vernd og
náð, og vitsku dáð, mér vyrdstu senda,
hvern dag í blessun hér byrja'og enda.

2. J svefni Gud mín vornin var, eg
viss'ej af mér sjálfum par, og háskann ej
adgætti; én móti hvorskyns hættu'og
pín, Herrann var sjálfur verndin mín,
hans forsjá fár upprætti, krapt med, gladt
géd, nýhann géfid, hann nú hefir, heilsu
minni; o Gud! eg treysti umsjón þinni.

3. J nafni Jesú ángurs frí, eg byrja
þenna dagiñ því, hann verdur mér hag-
stædur; Guds vilja ef ad eins eg añ, allt
mér til góda leidir hann, lífi og luckn ræd-
ur,

ur, hann mér, hjálp tjer, Herrann rádi, Herrans nádin hjá oss veri, hans allt, sem lifir, lof framberi!

## No. 277.

Lagid: Hvørr sér fast heldur.

Hátt upp í hædir, mitt hjarta lypti sér; Gud, sem nú gædir, mig gledi, lofa ber, nhann dag vott um nýa'eg sje, nád, nú sem lætur :,: nádugur Gud í tje. :,:

2. Hans nádi heyra, þá hóf eg andvarp kløckt, fúst fodur eyra, fann mína naudsyn gløggt, þá fyrsta byrjast þorfin vann, um ésjá bad eg, :,: og Amen! sagdi hann. :,:

3. Gud! hvorju gjalda, gjøf þína má eg nú? þøck þúsundfalda, þér ber eg fram í trú, ad um mig hugad enn sé þér, géf gáfur þínar, :,: ad gódu verdi mér. :,:

4. Enn framar feti, færist eg lífs'á skeid, géf æ eg géti, gengid fram dygda leid! takmark míns lífs sé takmark þad, oss fýsi'ad finna, :,: nær flytjumst ejlífd ad. :,:

## No. 278.

Lagid: Himna rós, leid og ljós.

Dagur er, dýrka ber, Drottinn Gud minn; nótt er lidin, lof sé Gudi! ljós

skin; gleður eñ, marga meñ, myrkra flótt-inn, líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

2. Fyri þiñ Son, og sælu von, sé þér hærst lof! mig þú spar'dir, meinum vard-ir, minn Guð! mér gafst frið, líkn og lið, leið svo nóttin; líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

3. Mig hefir leidt, og meinum eydt, miskunin þín, hvorja stundu'á heimsins grundu, hér til, mér vert hjá, mildur þá, eg missi þróttinn; líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

4. Eg bið þig: annast mig, eñ í dag nú, fyri þann sanna, sál-vin maña, 'Son þinn, veit mér náð, vernd og ráð, vægð og líðsinn', líf og sál, líka mál, lofi Drottiñ!

5. Helgann dug, hreinann hug, hjá mér uppvöek, þér að hlýða, líka líða, lán dags, og þúngann með, þolugt géð, þreya hlýðinn. Góðann dag, gladann hag, géfi' oss Drottinn!

6. Hvað eg hér, forma fer, farsælist vel, útgáng, framgáng, iñgáng blessa æ miñ, og í náð, allt mitt ráð, annast' hvört siñ. Góðañ dag, gladañ hag, géfi' oss Drottiñ!

7. Eg fel þér, allt hvað mér, áður gafst þú; sé þiñ dugur, mér máttugur, miñ Guð!

bæti sá, best sem má, breiskann þróttinn. Góðañ dag, gladañ hag, gési'oss Drottiñ!

8. Lif og önd, efnin vönd, eg nú þér fel, öllu illu, voða' og villu, ver mig, sóni og hýrd, sé þér skírd, sífeldt Guð miñ! lif og sál, líka mál, kosi Drottinn!

## No. 279.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Ljósið dags fagurt ljómar enn, lif breiðir út og gleði' í senn, minn fyrsti þánki því nú sé, þakklæti Gudi láta'í tje; að eg uppristinn frór og frí, farið gét til míns verks á ný.

2. Í værðar skauti sætt eg svaf, svefninn mér nýa krapta gaf, miñ líkham', sál og hús mitt hér, í hendi geymdir, Drottinn! þér, sú feðurlega forsjón þín, fordað hefir oss neyð og pín.

3. Hér fyrir sál og málið mitt, minn Guð! vegsamar nafnið þitt; míns hjarta traust og athvarf allt, á meðan lifi'eg, vera skalt; því hvorn, sem á þér hefir trú, Herra' ei yfirgéfur þú.

4. Hjálp eg uppfylli hér í dag, hvað þú bauðst og miñ styrkir hag, ætíð stunda með allri gát, annara' og mína velferð

lát,

lát; fótsporum Jesú fylgja hér, svo fái' eg Himna dýrd hjá þér.

## No. 280.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir!

Lít eg enn daginn létta húmi, loptid purpura geislum stráð, sem lík eg ádan lá í rúmi, líf nýtt þygg af míns Födurs náð; sje, tilbid, undrast yfir því, ad hlotid hefi fjør á ný.

2. Þessi reynsla þó þegi annad, þar um óræk mér géfur skil, medur undrun svo má eg sanna, mikill og vís ad Gud er til, alvaldur, gódur, øllum nær, umsjá holla, sem sképnum ljær.

3. Hann lætur sképnur lúnar deya, líf nýtt uppyngdum géfur þeim; um augnablik ad eins hér þreya, um eilífd fagna'i betra heim; deya hlýt eg, svo himna víst, hold mitt upprisid fái gist.

4. Vid von þá styrkur vil eg bída, og verud míns Drottins treysta hér, mót' heimsins løstum herkinn strída, hins leita, sem þar uppi er; holdid temja, sem himnum á, helgadri sálu fylgja má.

5. Æ! styrk mig, Fadir! upp svo rísi, og lifi þér, sem sképna ný; þíns ords og dæmis ljós mér lýsi, lastvar svo göngi fram í því; upprisinum, lífs nær útlegd þver, er mér þá sæla vís hjá þér.

## No. 281.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ást þína, Gud! eñ mér bodar, uppreñandi morgun-sol; þig ad prísa', er vardir voda, væra ljedir hvíld og skjól, fyrst skal ydja'og munnsins mál, mín af blundi hressta sál, lyptir sér í himna hædir, um hátign þína og miskun rædir.

2. Blunds í fadmi'eg lá sem lidinn, líkn þín vakti'og til mín sá, endurnæring, nædi'og fridiñ, nádug veitti þín forsjá, enn mér nýtt gafst aptur fjor, ótal bjóst mér heilla kjor, er þú vildir ad eg hlyti, uppvaknadur og þeirra nyti.

3. Lífs þess krapta áttu alla, er mér gafst'ú nýtt í dag; til þín þenkja' og þig ákalla, í þrautum skal og gledi-hag, lífs míns Fadir! løgin þín, lífsregla sé jafnan mín! yfirvegan ástar þinnar, unadsemdin sálar minnar.

4. Eg

4. Eg vil þín med lotníng leita, og lífs vid svorid finna hvert; í elsku' og dygd þér eptir breyta, eins hreinskilinn leynt sem bert; þú nún vilja'og veikleik sjer; vertú aldrej fjærri mér; leid mig svo framt lífs hvørn dagin, loks ad dýrdar erfi'eg hagin.

## No. 282.

Lagid: O Fadir himneski' og eilífi Gud!

Uppris mitt hjarta og í mér hvad býr, upprís mín túnga og máli rétt síhr, uppríst lofsaungur andheitur, nýr, upprísinn dagsroda nótt fýr.

2. Eins og lík andvana eg lá í nótt, ecki neinn finna réd líkama þrótt, dauda og lífs er æ millibil mjótt, mér lét þó Guds verda nád rótt.

3. Hans réttri leidi mig hendin í stétt, hún í dag greidi mín fóta-stig rétt, hún øllum sneydi mig hamíngju prett, hvørgi svo veidi mig tál sett.

4. Lát oss, Gud! nema ad lifa svo hér, lífsins svo dagana telja, ad vér, allir þá deyum, o Drottinn! hjá þér, dýrdina erfum med lífs her.

5. Fús skal eg, Drottinn! þó bída, sem ber, bera dags þúngann, en lid veittú mér;

ejlífur sómi og þockin sé þér, þig lofi hvad, sem ad lífs er!

## No. 283.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Enn til ljóss alvald þitt, ánýj mig færdi, af dúrsins dái' og mitt, dug hressum nærdi, líf, sem ad lá, lúid á fótskør þinni; verud þín, sem vidhjeldt mér, vottar, eg enn sé þér, minn Gud! í minni.

2. Því skal mín þacklát sál, þér aldrej gleyma; hegdan, hjarta og mál, holl bod þín geyma; med nýum dug, í dag hún fast áſetur, ad stunda dygd og dád, Drottinn! géf vetkum nád, ad breyta'æ betur.

3. Eg er í hættum heim, hans glis mig letur; en móti óvin þeim, adstod þín hvetur; eg megna allt, ef þinn kraptur mig stydur, súrt ef mér sendast vann, sykra þad aptur kann, þitt fylgi' og fridur.

4. Aldrej yfirgafst þú, þann á þig treysti; vera skal vissa sú, von mín og hreysti; í qvøld eg mun, áſt og nád lýsa þinni, ad héldst mér á þeim stig, ad ótt-ast Fadir! þig, svo frid eg finni.

No.

## No. 284.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Hýr aptur morgun blída brosir, breidir út heill og fognud sinn; vid annir heims sig snd mín losi, og til þín skundi, Drottinn minn! fyrst allra þock svo færi þér, fodurlega sem vidhéldst mér.

2. Hollt í svefn-værdum hlaut eg nædi, hreppti nýtt líf og krapta þar; hús mitt, líf, velferd, lánid, gjædi, læst í míns Fodurs hondum var; mín gjætti forsjá fodurlig, féck ej skadrædi nálgast mig.

3. Þygg í nád, Fadir! þá sem flýtur, þock af viknudu brjósti nú; heppinn er sá, sem hælis nýtur, hjá þér, og setur á þig trú! æ skaltú vera athvarf mitt, aldrej bráist mér fulltingi þitt.

4. Æ! hjálp mér, svo med alúd vandi, allt mitt framferdi vel í dag; ad trúr í minni stétt eg standi, stundi heill mína' og brædra hag; leid mig á fótspor Lausnarans, sem leidi mig til himna ranns!

5. Med hugfró eg þá hlaup mitt þreyti, Herra! þín forsjá leidir mig; eg veit þitt heit-ord aldrej breytist: elskar þú þá, sem stunda þig; þú ert minn Fadir ástargjarn, eg, fyrir nád, þitt kjerid barn.

No.

## No. 285.

Lagid: Sæll dagur sá.

Sú kémur stund, kroptug fram þegar alla, af grafar-blund, Guds Sonar raust mun kalla, og ejlífs lífs eda dóms vekja til. Eg verd, mín sál! einn med í þeirra skara; lífs leid er hál, líkn Drottins eñ þó sparar, þig, þess ej dyl.

2. Enn vard þér vært, vægd Drottins enn þitt hefir, fjør endurnært, og Fødur-trygdar géfur, þér merki ný; manstú til hvørs þad skér? Guds ástar géd, gjori þér til háns snúa, ad fáir sjed, undir ejlífd sig búa, hvørr skuli hér.

3. Þér vaki sá, þánki jafnan í brjósti, synd fæli frá, fýsi dygd ad kappkostir: eilífd eg flytst, vid andartak hvert nær. Hann greidi þér, gjordir allar svo starfa, ad stundir hér, ødrum og þér til þarfa, vel vinnist þær

4. Rótfest hjá mér, miñ Fadir! áform þetta; kénn mér, ad hér, hef eg ej bústad réttañ; mitt fødur land, er mínnum Gudi hjá. Þángad svo eg, þaunkunum hvørn dag snúi, þann brædi veg, þar til mig jafnan búi, lid þitt mér ljá.

## No. 286.

Lagid: Heims ins Skyrir forsjón fosta.

Dagur austurlopt uppljomar, ljósșins Herra! dýrd sé þér, mikla vernd og milda doma, miskun þín oss jafnan tjer; morgunrodans bliðrt brún, blessud enn nú gledur hún; af særng upprísum sælir, gládir, ad sýngja lof þitt, hjartans Fadir!

2. Skapari þared lýds og lauda, lífs og heilsu veitir hnoss, láti hans sannleik, ljós og anda, leida, skína og styrkja oss, ad þjóna sér í þeirri stétt, þar hann hefir oss í sett; sérhvert bol, sem mér kann mæta, miskun vyrdist hans ad bæta!

3. Gud! hvad sem í ollum áttum, oss til heilla skaptir þú, eptir sinnum edlishattum, ebli vora farsæld nú; géf oss þenna gódan dag, gódi Fadir! sjá vorn hag, oss þín blessud gædska geymi, gædin full í betra heimi.

## No. 287.

Lagid: Endurlausnarinn vor Jesú Krist

Gudi sé lof fyrir ljósid gladt, lidin med værd er þessi nótt, eg vil upprísa, og minn Gud prísa. Gjæti vor Gud!

2. Hans verk því eru himin og jerd, hér med er ljós og dymman gjord, mót

morgum voda, mønnum til góda. Gjætt vor Gud!

3. Svo marga lofgjørd seg'eg þér, sem þú gafst andar-takid mér, um æfi mína, fyrir alla blessun þína. Gjæti vor Gud!

4. Mínum misgjørdum, Gud minn! gleym, Gud minn! lát mig ej deya í þeim! mín verk ad stunda, veit mér án synda! Gjæti vor Gud!

5. Svo lát mig vera sem þú vilt, sé æ þitt nádar-hejt uppfyllt, á mér og mínum, med krapti þínum. Gjæti vor Gud!

6. Géf mér ad skynja'ad endastá, æfiñar skejd og lífsins þrá; minn Drottinn gódi, mér øllum rádi! Gjæti vor Gud!

7. Eg fel mig nú og øll Guds børn, almáttugs Guds í skjól og vørn, í himnaríki, hann oss inntaki. Gjæti vor Gud!

## No. 288.

Ladid: Sá vitnisburdurinn valdi.

Hvørn skyldi líf mitt lofa, ef lífs ej høfund þann, er lét mig lifa' og sofa, og lífga þar med vann; skyldt er og ljúft mér líka, ad lofa hinn gjædskuríka, því verdur þess er hann.

2. O! ad mitt áform vekti: o Gud! ad lofa þig; o ad eg ætíd þeckti, hvad annt þér sé um mig! hjálp, Gud! á hvørjum degi, hver ein- mín athøfn segi: ljóst ad eg lofi þig.

3. Mun þá einn morgun fagur, mig vekja'af þægum blund, hinn mikli dómsins dagur, þá Drottins fødur-lund, lofsæld mig lætur gledja, lífs gledi'og heillum sedja, um eilífdar alla stund.

# 4. Qvøld - Sálmar.

## No. 289.

Lagid: Þeck sé þér góð gjørd.

Sólin rann, ljós leid, ljúfur Gud mig stydja, í dag vann og neyd, allri burt ad rydja, af því hans er greid, øllum líkn ad bidja, enn skal mín ydja.

2. Veit mér þrótt veg þinn, vel, o Gud! ástunda, og, ad skjótt eg finn, enda lífs, ígrunda, svo hefji rótt hug minn, hédan burt þá skunda, til fegins funda.

3. Veik mín dád æ er, abl og mentir dvína, gjørvallt ráð, Gud! þér, géf eg mitt,

 aud-

audsýna, vyrdstú náð í nótt mér, nú eg fel í þína, umsjón önd mína.

4. Mér ej neyd mun þá, mædu'og qvída valda, ef lífs skeid og þrá, endar helid kalda, géfst mér þreyd, Gud sjá, gledi'og dýrd margfalda, um aldir alda.

## No. 290.

Lagid: Kristur reis upp frá daudum.

Dags vöku' er enn nú endi, og nætur-svefn fyrir hendi; svo brentist allt í heimi hér, en himnesk gledi stadföst er. Gjæti vor Gud!

2. Ejlífi einvalds Herra! eg vil þér þackir gjora, ad sendir Jesúm Soninn þinn, Sáluhjálpara' og hyrdir minn. Gjæti vor Gud!

3. Þú hefir á þessum degi, þyrmt mér en glatad eigi, annast svo sem þitt einka barn, o Gud! hvad þú ert nádargjarn! Gjæti vor Gud!

4. Eg vil þó aumur játa: eg má ej barn þitt heita; hróp synda minna í himininn, hefir opt stígid, Fadir minn! Gjæti vor Gud!

5. Þú gafst mér blessun þína, þá nád hef'eg syndum launad, í dag sem öll mín

ævi-

æfi-qvøld; æ! mína þúsund punda skuld! Gjæti vor Gud!

6. Fadir! ó Fadir náda, Fadir sannleiks og dáda! fyrirgéf øll mín afbrot leid, fyrir árnan Jesú pínu og deyd! Gjæti vor Gud!

7. Annars eg ej má sofa, ellegar nádir hafa; hvørr víll vænta sér værd og frid, vëra ósáttur þó vid Gud? Gjæti vor Gud!

8. Gleym þú þvi glæpum mínum, Gud minn! en krapti þínum, vernda þú mig svo vil eg traust, vel sofa'og hvílast háskalaust. Gjæti vor Gud!

9. Sál, æru, audnu, lífid, og allt þad þú hefir mér géfid, géf eg í þína gjædsku vørn, Gud minn! vardveit þú øll þín børn. Gjæti vor Gud!

10. Jesú, meistarinn mildi! mín óskar sál og vildi, himneska ró og hvíldir fá, heilagra þinna landi á. Gjæti vor Gud!

11. Gud géfi oss gódar nætur, Gud hjálpi'oss vel á fætur! á hann vér setjum traust og trú, trygd hans selum oss allir nú. Gjæti vor Gud!

## No. 291.

Lagid: Lángar mig í lífshöll.

Hvílld er þæguft þjádum, því hún hressíng tilbýr, Guds ad gjædsku rádum, gjördist nóttin mörg hýr, skjær frá lýdi' og ládum, laungum þegar sól flýr, aptur værd adsnýr.

2. Lof þeim lífs-forníngja, líf sem geymir vort þrátt, sætlega skal sýngja, sál og túnga mín hátt, nýrri nád umkríngja, nú mig lætur sinn mátt, og hlynnir ad dátt.

3. Nú áfalla nótt vann, nádir lúdir fá menn, allann heunar óttann, yfirgnæfir værd enn, lífs umferd..r flóttañ, farsæl endar hvíld señ, laun fáum þá breñ.

4. Mína daga mig lær, minn Gud! telja svo hér, ad eg skynji allnær, er síd-asta qvöld mér, endíng þegar öll fær, æfistundin hjá þér, þú betra líf ljer.

5. Mér hlíf minn Gud vel eg, mínum lífs ávegi, aldur hvar sem el eg, eins á nótt og degi, forsjón hans mig fel eg, fyrir tign hans hnegi, og ædst lof segi.

## No. 292.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Uppdregst ad auga-brá, enn daudans bródir; mig gleyminn minnir á, og

mælit hljódur: minníng daudans, dag hvorn nú hjá þér vaki! hef eg það huga' innrætt, haft og í dag þess gætt, ad enda' eg taki?

2. O sál ódaudleg mín! ebld' eg heill þína? hugsan sú: hverful dvín, hér-vistar lína; jok hún mér megn, mót girndum heimsins blindum, og hvatti' ad ydka dád, adhyllast Guds míns rád, en sjá vid syndum?

3. Væg, Fadir! væg í nád! væg þú mér sekum! lát brot mín ljót afmád, létt sektum frekum; sjá! hjarta sært, synd hatar til þín leitar, sem einka athvarfs síns, í nafni Sonar þíns, um nád ej neita.

4. Mín Fódur forsjón vañ, fram í dag leida, í nótt því annast kann, og meinum eyda; hels dúr mig frá, heimi þá svæfir kaldur, ond dýrdleg frelsud frí, fullsælu liñr í, ejlífda' um aldur.

## No. 293.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ljóss á vængjum leid eiñ dagur, lengst í veïstrid frá oss iñ; eiñ þú veitst, hvort annar fagur, í austri rennur nockurt sinn, Herra Gud! sem hefir rétt, himin-ljósum

midin sett; ókal vitsku verkin ljóma, vald og gædsku'e' þína róma.

2. Þér af hiarta þockum gladir, þeña lidiñ sæla dag; öllum meinum af verndadir, allra leitst í mildi hág. Séf ad miñumst allir á: eñ nær dauda bar oss sá; gef því lísid vel svo vondum, viss sé blífd í þínum hondum.

3. Blund á oss lát sætañ stga, sig hér þíñt fedur-vorn, knott, sem máské nákold hitta, nú þín audmjúk sela born. Sofni ongað dauda-dúr, draumi sálin vakni úr, frá náttdægra dyñu hafin, dýrdar ljósi þínu vafin!

## No. 294.

Lagid: Kom! Andi heilagr!

Til hafs sól hradar sér, hallar út degi, eitt skeidrúm endast hér, á lífsins vegi.

2. O Gud! hvort annad nú, eñ þá vor bidur, auglýsir engum þú, ódar enn lídur.

3. Nog er: ad vitum vel, vort líf ad endi, og ad þad eíns og hel, er þér í hendi.

4. Ad um oss añt sé hér, ad sért vor Fadir, hugbraustir vitum vér, vissa nóg þad er.

5. Þó dagsins stundum skeid, skjótt fram ad nóttu, brádt heñnar lídur leid, ad ljósri óttu.

6. Svo lífid braut er breid, til bana klífsins, og daudinn eins er leid, aptur til lífsins.

7. Svo lifa sérhvorr á, sem sálast egi, en andast eins og sá, sem aldrej deyi.

8 J þína umsjon nú, ástríki Fadir! felum líf, bygd og bú, blundum svo gladir.

## No. 295.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tidir.

Mins Guds fødurleg mildi sparad, mig hefir enn nú þenna dag, líf mitt frá ollu vondu varad, vikid fyrir mig ollu't hag; þacklát og audmjúk því mín ønd, þína minnist vid Fødurhønd.

2 Mig orlát saddi. mér nam svala, mér lédi klæda- og húsa-skjól, ad heyra'og sjá og hugsa'og tala, hjá mér en krapta máttug ol; brjost mitt vakti og breiskleg géd, bendingu þinna orda med.

3. Æ! hvorr fær huga yfirfarid, ástgjafir þínar, Fadir minn! æ! held eg vel þad hafd'eg svarid: hlýdinn ad reynast sonur þinn? notadi'eg gædi'er gafstu mér, Gud minn! sem visst'eg þócknast þér?

4. Fyrirgéf brot mín, Fadir kjæri! fyrr en mín augu lykja sig; þinn andi sátr og

svolun færi, samvitskan þegar klagar mig; sjá! allt mitt athvarf, öll lífs von, er sá fyrir mig leið, þinn Son.

5. O Drottinn! þinni umsjón anda, eignir og líf mitt nú eg fel; fullviss ad eckért fær mér grandad, forsjón þín allt því geymir vel. Á fætur þá eg aptur rís, enn skal þér syngja lof og prís.

6. Allteins deyandi eg mun hnegja, í trausti Jesú høfud mitt, eg mun þá sofna' en ecki deya, eignast vaknadur ríki þitt, hvar þig, o Gud! um eilíf ár, englaña prísar raustin klár.

## No. 296.

Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú.

Fyrir gott allt þig gøfgum vér, Gud! O. sem oss nád og miskun tjer; eg þó sé morgni minna, líkusamt géd þitt, lofgjørdi mitt, láti nád hjá þér finna.

2. Hjálp í dag tjedir mikla mér, mig hjartanlega tókst ad þér, bænheyrdir blídt sem Fadir, mig og mitt hús, miskunarfús, frelstir og forsorgadir.

3. Allt hvad eg er og andi sá, í mér gladvær, sem hugsar á, ad þín dýrd eblast nædi, allt hvad miñ hag, ebldi í dag, eru þín meddeild gædi.

4. Ept.

4. Eptir þiñi elsku og mátt, añastú mig um þessa nátt, sjá ej til synda miña, í dauðans neyð, allsherjar Guð! aðstoð láttú mig finna.

## No. 297.

Lagið: Gæðskurikasti græðari minn!

Nú géngur sól að gylltum beð, gánga vil eg því feginn með, að hvíldar hægu rúmi; víst hefir allt mitt vinnulag, verið án slísa þenna dag, frá birtíng' hans að húmi. Guð minn! þjón þinn, færir þér, af hjarta hér, það hefir hann eina, þúsundfaldlegar þackir hreinar.

2. Það er svo margt og mikilsverdt, minn Drottinn! sem þú hefir gjört, mig við um mína daga; allt var það gott, og þacka þér; þín forsjón mild útbýtti mér, því sem best hér nam haga; Faðir! Faðir! veiti lið mér, það eptir er, og öllum líka, guððómur þinn og gæðskan ríka.

3. Géf þú oss hæga hvíldar-stund, svo hvørr og einn við lokinn blund, frelsist af líkhams lúa; erfiðið léttist æ hvørn dag, af von um dýrð og sælu-hag, við bestu kjör að búa, hjá þér, þá ver, notin sjáum, full og fáum, Faðir þjóða! þess sem t heimi gjørðum góða.

4. O Drottinn! vertú alstra líf, annastú, Drottinn! þeirra líf, sjúkleiki sem að þjáir. Gef þú oss hjarta gott, með auð, gleð þú oss, svo að hjálp í nauð, hvorr einn fátækur fái. Annægt, þér þægt, hjartalag, um hvörn einn dag, og hógvært sinni, gef þú oss öllum af gæðsku þinni!

## No. 298.

Lagið: A Gud alleina.

Minn tími stendur, minn Gud! í höndum þín; enn er á enda, eitt stig af vegferd mín; leidtogi tryggur, trygd þín enn reyndist mér; o! hvad örygggur, er sá, sem treystir þér, fyrir öllu'er áliggur, einn þú best honum sjer.

2. Þygg mitt þakklæti, þér sem glöd færir önd, allt fyrir ágæti, er þín mér veitti hönd. O! hvad eg minni, er ást og þinni trygd! saurgad hef' sinni, af synda vidurstygd; vægð þó náð þín vinni, og vidrétti mína dygd.

3. Sjá! synd eg hata, þú sjer mitt hjarta vel; eg bíd minn bata, bod þín ef ræki vel; veiktum þú vægir, vilja álítur minn, hjarta það hægir, hræddu vid breiskleik sinn; náðin sú mér nægir, nálægann Þig ef sinn.

4. Nú fer ad nóttin, nádþurfi'eg leita þín; Gud! þíñ á þróttiñ, þorgod von stendur mín, síst innu mig saka, þá sit í skjóli því; þú veitst ad vaka, svo værda njóti'eg frí, og mig ad þér taka, í þad hæli eg flý.

5. Í deyd øryggur, er hverr sá treystir þér, leidtogi tryggur, trygd þín þá reyniſt mér. Minn tími stendur, miñ Gud í hendum þín, ef vilt útendud, ad skjott sé vegferd mín, fel eg í Fodurhendur, frelsada sálu'af þín.

## No. 299.

Lagid: O Fadir himneski og eilífi Gud!

Himin sól vendi í hafsins skaut iñ; húmid oss bendir til værdar um siñ, leidsvo til enda einn lífsdagur minn, líkn vannstú senda mér, Drottinn!

2. Þér, blídi Fadir! lof þýdasta ber, þú mig verndadir og øllu frá mér, grandi vísadir þín gæsandi hjer, gædska blessadi hvad mitt er.

3. Þú, sem vel greidir mér gæfunnar stig, gjør þad eg beidi: þín Fødur hønd veg, anníst og leidi, mín ønd ørugg sig, í lífi'og deyd reidir á þig.

4. Øll skal svo stundin burt ángist og þrá, er værdar-stundin mér gledileg þá,

síðasti blundur þó sígi mig á, sælum Guðs fundi mun eg ná.

## No. 300.

Með sínu lagi.

Sá ljósi dagur liðinn er, líður að nætur stund; himneski Faðir! hjá oss ver, hægann géf þú oss blund. Gledji oss Gud í himnaríki!

2. Gjæðskan þín allvel geymdi oss, og góð verndad'í dag, mýkti í náð mótlæti' og kross, miskun þín sá vorn hag. Gledji oss Gud í himnaríki!

3. Þar fyrir allir þackargjörd, þér færum, Drottinn! vér, heidri þig menn, himia og jörd, og hvad sem skapad er. Gledji oss Gud í himnaríki!

4. Svo margt brutum vér móti þér, megnum ej telja það, ord, hugrenníngar, verkin vér, vanda ej gádum ad. Gledji oss Gud í himnaríki!

5. Fyrirgéf oss nú, Fadir kjær! það framdum þér á mót, oss nýann dugnad aptur fær, ydrun ad gjöra'og bót. Gledji oss Gud í himnaríki!

6. Adgjæt, þú oss nú enn í nótt, oss verndi mildin þín, ad sofna kynnum sætt

og

og rótt, sviptir frá allri pín. Gledjt oss Gud í himnaríki!

7. Þá líkamiñ hvíliſt, haldtú þó, hønd þinni yfir mér, géf þú ad allir ødlumſt ro, oss forda meinum hér. Gledji' oss Gud í himnaríki!

8. Ad morgni aptur uppvek þú, oss á hagqvæmri tíd; svo af oss þá í sannri trú, syngiſt þér lofgjørd blíd. Gledji' oss Gud í himnaríki!

9. En þegar endaſt æfi-tíd, og kémur vor dauda-ſtund, veit oss, Jesú! hún verdi'ej ſtríd, værann géf ſídaſta blund! Gledji' oss Gud í himnaríki!

10. Á enda heimsins oss sért hjá, iñleid í dýrd med þér; lát oss eilífañ føgnud fá, og frid þegar deyum vér! Gledji'oss Gud í himnaríki!

## No. 301.

Lagid: Heimsins Styrir forsjón fasta.

Hvíldir nætur-húmid bodar, Herra! sál mín gledſt í þér, eñ þín ſtýrdi øllum voda, alvøld hønd í dag frá mér, hellſu, blessun, fjør og frid, fann eg andar-tak hvørt vid, síns Guds ástar undrum lýsi, ønd mín þacklát, losi, prísi.

2. Var eg í dag sá vera skyldi? vitna þad, mitt hjarta'! í qvøld; ávañ óþreytt

míns Guds mildi, mig ad fordast glæpa vøld? æ! eg blygdast, auga þitt, Alskygnt! sjer dagfar mitt, æ því gjørr þad yfirvega, æ því meir eg fyllist trega.

3. Fús þú brotin fyrirgéfur, Fadir! svo menn elski þig, í þad skjol mín ønd sig vefur, ardmjúk, trúgod huggar sig, vid míns Jesú qvala qvøld, þá qvittadi' hañ mín synda-gjøld, fyrir hañ eg vænti vægdar, og veit þad eitt til hugarhægar.

4. Ljá mér, Fadir! fylgd þíns anda, ad framqvæmt géti'eg áform mitt, æ því meir mig allañ vanda, sem afbrot fleiri gafst mér qvitt; eg sofna, veit señ af mér ej, eg er þiñ hvort lifi'eda dey, í Fødurhønd, miñ Fadir! þína, fel eg líf og sálu mína.

## No. 302.

Lagid: Gef þinni Kristni gódann frid.

Gud Fadir! sem oss geymir vel, gædsku mátt þinn eg prísa, þitt enn ad lofa ástar þel, og miskun þinni lýsa, skal mín þacklát vanda vísa.

2. Eg, sem þíns anda ástgjøf hlaut, er þínum trygdum minni, vesæll til þeirra vægda', er naut, vann ej af miskun þinni, synd uppgafst mér enn eitt sinni.

3. Gud!

3. Gud! heiløg vera, góð og trú! Gud minn, Gud fedra minna! frá móðurlífi minn varst þú, æ mætti' eg verdur finnast, í tølu barna teljast þinna.

4. Leid mig þitt endurlífnad barn, lát andar frid mig næra; nú sofna'eg, Fadir gædskugjarn! géf mér hvíld trygga'og væra; til doms lát mig ej dúrinn færa.

5. Fadir! oss háskaforda'og neyd, fel eg þér mig og mína; þér treysti'og ad mér tek þinn ejd, tryggd hefi'eg reynda þína, aumum miskun enn munt sýna.

## No. 303.

Lagid: Himna rós, leid og ljós.

Hendi vér, hefjum hér, helgann qvøldsaung, dagur lídur, fagur, frídur, fæst því, hvildin hæg, bjádum þæg, því skal hvørt sinn, líf og sál, líka mál, lofa Drottinn!

2. Eilíf náð, allt vort ráð, annast hefir, slisafollum, afstýrt øllum, oss frá; syngi þér, allt hvad er, ædst lof, Gud minn! líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

3. O! hvad mjøg, opt hef'eg, illa mót þér, dygdum hafnad, syndum safnad, sál mín, kallar því eymdum í, á þig, Gud minn! lísid hér, leidist mér, leys mig, Drottinn!

4. Veit mér ró, frid og fró, Fadir! í nótt, lát ej hræda, mig né mæda, mein þúng; kraptur hér, med sé mér, máttugur þinn; góda nótt, gott og rótt, géf oss, Drottiñ!

5. Bljúg er mín, bæn til þín, besti Gud! enn: ad mig geymi, hér í heimi, hønd þín, verndin þín, vørnin mín, veri hvørt siñ; góda nótt, gott og rótt, géf oss, Drottiñ!

6. Eg fel þér, allt hvad mér, ádur gafst þú, sál' og lífi hjálpi' og hlífi hønd þín; allt hvad er, medur mér, mikli prís þiñ; líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

---

## 5. Bord-Salmar.

### a.) Fyrir Máltíd.

### No. 304.

Med sínu lagi.

Fadir á himna hæd! hvørr fyri Jesú nád, elsku þína oss vottar, ønd og líkama mettar.

2. Hvad um lopt, haf og jørd, hefir til-setta ferd, forsorgar þú og fædir, fjølg-ar, annast og klædir.

3. Med lofgjørd og lotníng vér, líka sem kristnum ber, þiggjum í dag þacklátir, þitt lán, sem ad oss veitir. 4. Lát

5. Lát oss í hreinum hug, halda oss við þinn veg, svo með samvitsku góðri sedjumst voru fódri.

5. Hjálp oss nú, Herra kjær! svo heiður þinn eblum vær; fyrir Frelsarann Kristum, Fadir! á þig treystum.

---

Vér þockum þér, hiñ gódi! (sjá No. 268.)

---

## b) Eptir Máltid.

### No. 305.

Lagid: Kristi! vér allir þockum þér.

Gud vor Fadir! vér þockum þér, fyrir þinn Son Krist vorn Herra, af mildi þinni, sem margfölder, manneskjur vyrdist næra, og allar sképnur, sem eru med önd, oss hefir sadt þín milda hönd, lof sé þér æ og æra.

2. Herra! sem mettad hefir nú, hold vort, er deya hlýtur, sál'vora einniñ sedjir þú, sem aldrej deyr né þrýtur; ord þitt er heñar abl og megn, ad strída synd og lestum gégn, uns med þér nádar nýtur.

3. Himna Fodur á hvörri tíd, heidrun mesta sé framin; sá oss qvittadi syndir vid, fyrir Soniñ til vor komiñ, Hjálparañ

Jesúm Herra vorn, hvørr oss þín gjørdi óskaborn, ætíd lofum vér, Amen!

## No. 306.

Med sinu lagi.

Heidrum vér Gud af hug'og sál', hans lof vor túnga syngja skal, ad sína miskun syndi ljóst, saddi oss vel med dryck og kost; sá øllu holdi fædu fær, fædt hefir oss nú Drottinn kjær, þad allt hans mildi þøckum vær.

2. Þøckum honum nú, þjónar hans, þad er æ skylda sérhvørs manns. Játum: ad oss elskadi hann, af nád sinni skapadi mann, med húd og holdi, blódi'og bein', bygd er sú helzta sképnan ein, og sídan géfin sálin hrein.

3. Gud hefir verøld vel tilreidt, vanta lét ecki'á næring neitt; fjøllin og dali frjófgar hann, fénadinn gras ej vanta kann; vex af jørdunni vín og braud, veitir þad hvørt ár mildur Gud, og hjálpar svo af húngurs naud.

4. Fiska veita oss vøtn og sjór, verdur af þessu bjørgin stór; eggin og fugla eignumst vér; oss til atvlnu skapad er, naut, geitur, svo og saudafé, sjálfur Gud lætur oss í tje, svo ad vor næring nógleg sé.

5. Þøckum honum og þyggjum nú, þad hañ géfur oss sanna trú, høfum þvi œ í hjarta sett, halda hans bod í vorri stétt; svo jafnan øll hans heiløg hjørd, heidri hans blessad nafn á jørd; þad skal vor allra þackargjørd.

## 6. Brúdkaups-Sálmar.

### a.) Á undan Hjónavígslu.

Í nafni Jesú athøfn má. (sjá No. 48.)

### No. 307.

Lagid: Gædskurlkasti grædari minn!

Fyrstu brúdur til fyrsta manns, framleiddi mildin Skaparans, o! hjónabandsins Herra! af þínum himni þau á- lít, þitt sem nú koma fyrir auglit, ebl heill og heidur þeirra, í heim, œ þeim, vyrdst lidsiña, lát þau fiña, líkn af hædum, blessa þeim lífsins lán, og mædu.

### No. 308.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Hér, lífsins Herra Gud, vor Gud! gøfgun og lotníng sýnum, þú skapar ljós

og lífs fögnud, líka med krapti þínum, áſtir tendrar úngdóms barm, allteins fullordiñ styrkir arm, og heillum audgar fínum.

2. Frábærlega jørd fögur er, full med øll hentug gædi, þau ef ad eins rétt þecktum vér, og þeckt hvørr brúka nædi, armædan sjálf oss yndi fær, á medal þyrna rósin grær, lífsljón lif betra grædir.

3. Hvørr sá hér vina situr í krans, sem ej med gledi-tárum, velgjørdir telji Verndarans, veittar á barndóms árum? o Gud! þær reiknad enginn fær, í dag þó villt þú mikla þær, med nádar nægdum klárum.

4. Þar fyrir prísum þrávallt vér, þig, Fadir allra lýda! gamlir og úngir greida þér, gøfgun um heiminn vída; á himni' og jørd' í hvørri átt, hljómi sú lofgjørd dag og nátt: blessad sé nafn Guds blída!

5. Blessa þañ dag nú egum á, ástanna gledi' ad sæta, og brúdhjóna lags, er byrjast á, í blessun vyrdstú gæta; blessa hvørn aldur, stétt og stand, styrk og blessa vort Fødurland, lát eining ást innræta!

## No. 309.

Med sínu lagi.

Heimili vort og húsin med, nema Herrann byggja vildi, árlega blessi bú og

fé, björg svo hvorr hljóta skyldi, af gæðsku hans og guðdóms náð, sem gjarnan eblir allra ráð, annars vor ydja' ej gyldir.

2. Nema Gud sjálfur styrki stad, og stjórni borg og landi, hlífi og gjæti ellu ad, svo engu stofnist vandi, géfi og sjálfur gódann frid; gagnlaust er þó ad vaki lid, fær engu fordad grandi.

3. Lítid ávøxt og ydar børn, af Gudi þau hafid þegid, haggvæma fá þau hjálp og vørn; hans lán og gáfur segid: forsjón vill hann þeim veita vel, vís þeirra fæda' hún ávallt er, sjálfir þad sañа megid.

4. Eins og ad pílur ecki fár, oblugur hefir í hendi, þángad sem hugdi' hann sér til fjár, sérhvørri frá sér reñdi, mátt Guds og vilja merkir þad, mann og qvinnu úr hinsum stad, til samvista hann sendi.

5. Sæll er sá mann þeim géfur Gud, gæfusamt lánid barna, óvinum qvldir ecki vid, þeir hafa hann ej gjarna, ofund og neyd ef hann vill hrjá, hjástod ørugga hefir sá, volædi sér ad varna.

6. Fodur, Syni og Anda sé, ædst dýrd um jord og himin, eins sem hun var ad upphafe, án enda verdi framin; kénn oss ad halda kristian sid, qvittast og skiljast syndir vid, sá þad vill syngi: Amen!

## b.) Eptir Hjónavigslu.

### No. 310.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn!

Hau féllu ad þínum fótum hér, Fadir! einum treystandi þér, gódra því adstod ertu; þad bandid trygda blessa þú, blídri med Födurhendi nú, sem trúlynd tengir hjörtu, æ med, gladt géd, lífsins feta géf þeim gotu og gledi næga, í þíns fridar skauti og skjóli þæga.

### No. 311.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn!

O Gud! þín mild og heilög hönd, hjúskapar gaf á jördu bönd, þig bidjum, helgur Herra! géf þessum hjónum heill og nád, hjartans eindrægni, ydni, dád, þeirra lát yndi ei þverra, þau leid, þeim greid, hjálp ad bera, hvad sem skér, svo heit adgæti, vongód í hrigdum, ver í kjæti.

## 7. Katechisations-Salmar.

## a.) Á undan Katechisation.

### No. 312.

Lagid: Kristi! vér allir þockum þér.

I nafni Jesú nú, vor Gud! nálæg þér born þín standa, ord þitt í gledi eins

og nauð, oss færir líf til handa; svo það til gagns vors sanna vér, sem fúsir að læra hér, gef öllum oss þinn anda.

## No. 313.

Lagið: Heiðrum vér Guð af hug og sál.

Alvísi Guð! lát orð þitt blíðt, útbreiðast heims um löndin víðt, goða þeim úngu gef sem fyrst, til guðrækins og dygða iðst, þinn kraptur æðri öllu er, úngum og gömlum kenn því hér, góði Faðir! að gédjast þér.

## b.) Eptir Katechisation.

## No. 314.

Lagið: Gæðsturiskasti græðari minn!

Náðugi Guð! vér þeckum þér, það oss úr myrkri leiddir hér, og qveiktir ljós þitt klára; kenndir oss þeckja þig og hann, þú hvörn útsendir, Lausnarann, strax á tíð æsku ára; gjöf sú, gef þú, ávöxt færi að vér lærum lifa og deya, Frelsarans boðorð sem fyrisegja.

Vér biðjum þig, o Jesu Krist! (sjá No. 130.)

## 8. Konfirmations-Salmar.

### a.) Á undan Konfirmation.

### No. 315.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Þessi dagur, o Gud, vor Gud! géf vel oss blessast nái, vid þig oss bind og vid þín bod, veit trúarstyrk hvörr fái; Fadir! hér fyrir þér, fólk úngt og gamallt sjer; oss, Fadir! állt þú, med ædstu mildi nú, andi þinn lid oss ljái.

2. Þitt legg þú úngum ord í munn, innra þess kraptur brenni, ad trúna'og hennar atrid kunn, æ fölskalaust medkéñi. Þeir fyrri færdust þér, fyrir þeim bádum vér, skírdust til þíns nafns þá, þig, Gud! nú treystum á, von sú uppfyllast viñi.

3. Nádar sáttmál ánýa þú, nú vid börn þessi'og sídan, lát já þad, sem þau segja nú, sist þeim úr miñi lída; en breiskt þo er sérhvert, einn þú máttugur ert, hjálpa med styrkri hönd, hvörri frómlyndri önd, til enda trúrri' ad bída.

4. Og nær þau húsum fedra frá, flytjast í veröldinni, trúarbrögd Jesú þú lát þá, þeim vera'í ferskú minni; svo hlýdin

þjóni þér, á þig treyst'einn, sem ber, yfirgafst'aldrei barn, á þig sig reida vann, og Födurlíkn fela þinni.

## No. 316.

Lagid: Gædskurlkasti grædari minn!

O Fadir, Son og Andi! þinn, órofinn stendur sáttmálinn, eg þó mín ord ej haldi; æ! minn mig jafnan á minn ejd, en ef eg skeik'af réttri leid, unn mér þad ángri valdi; hvorr þá, hér má, vita, Gud! þú veitir nád, því viljum gladir, á sáttmál þitt treysta, trúggvi Fadir!

## b.) Eptir Konfirmation.

## No. 317.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvorr sem kann.

Drottinn! þú, Drottinn ad hátign stór, æskan nú, einlæg en hvikul sór: þínum merkjum undir æ, og dygdar strída. Seig þú: börnum lid eg ljæ, læt þau heill bída. Gud er hjá, Gudi ef hlýdid; Fadir sá, sier hvad bágt lídid, örugg þá, elskud börn strídid, sterk er Drottins hjálparhönd. :,: Ydar Fadir elskar heitt, elskendur sína. :,:

2. Dygda-skeid, skundid nú, kjæru born! en sú leid, er hæt- og villugjorn; hættri villu þurfid þér, þó síst ad qvída, ljós á vegum yckar er, ord Drottins blída. Guds forsjá, greidir veg ydur, hættum frá, hvervetna rydur, alla þá, almáttug sýdur, sem ljúft er ad Drottinn leidi sig. :,: Hann er sæll, sem hlýdir fús, himnanna Gudi :,:

3. Varnir! hér, hlustid ord Drottins á, hrædist ér, ad hneixla bornin smá: Drottins raust af hærstu hæd, hátt dunar þanninn: mún skal hegning hitta skjæd, hneixlunar manninn; en hvorr sá, er villtann leidir, veginn á, veg sjálfs sins greidir, sælu' ad fá, sem Gud tilreidir, þeim, er kjærleiksvinna verk. :,: Gjeri hvorr ad gjæta sín, Gud Drottinn allra. :,:

## No. 318.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Gud, Fadir orma'og anda, eilíf, trú-fost veran merk! óbifud ord þín standa, þó alheims falli bygging sterk; veit oss trú, vel ad halda, ef veikist sú, styrk margfalda, vid oss þú, og veik-leiks lát ej gjalda.

# 9. Reformations-Salmar.

## No. 319.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

Gud ljóssins Fadir gódi! nú, gøfgi þitt nafn vort hjarta, úr ljótu myrkri'oss leiddir þú, í lærdóms skin Jesú bjarta, þá myrkurs skýdi þoka því, þú sagdir: verdi ljós á ný! drógst svo frá dyman svarta.

2. Pína kirkju stríddi' illskan á, en Gud! þú nádir styrkja; dug og dug gafstú þínum þá, þeir lýstu' upp veginn myrkva, svo frelsi' og ljós oss fjell' í skaut, flýa hjátrúar veldid hlaut; sem klettur stód þín kirkja.

3. O Gud! lát oss ej optar sjá, aldar;a myrku daga, og lát Kénnendur aldrej fá, oss sem á tálar draga, svo allir kristnir, eins og her, þig elski, þecki' og hlýdi þér, og þínum elskulega.

4. Øll blessan, Drottinn! er hjá þér, oss blessa þú af hædum; kirkjunnar ætíd verdur ver, vernda frá ófrid skjædum; á jord trú manndygd oss skal þá, undirbúa, svo himnum á, ljóssins Gud lofa nædum.

No.

## No. 320.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Góð standur, Gud! þín kirkja, grundvollud, fost, óhræd; hana vannst stydja og styrkja, gégn strids ofríki og slærd. Illskunnar megnt ofbeldi, ej hús þitt bifa má, mótstendur myrkra veldi, merkum byggt sannleik á.

2. Líknsami Fadir ljósa! oss leiddir fund þinn á, allir, sem inngáng kjósa, í hús þitt, gjarnan fá. Þá baudstú burtu líða, blindni og hjátrú vann; lofgiord þér lúkum blída, í ljosi því upp sem rann.

3. O Gud! oss unn ad læra, hvad ertu mildur oss, og í nyt ord þín færa, svo edlumst dýrdar hnoss; æ medur oss þitt skjæra, orda ljós, Drottinn geym; lát þess fridar bod færa, farsæld um allan h...n.

## 10. Kirkjuvigslu-Salmur.

## No. 321.

Lagid: I dag eitt blessad barnid er.

Þig innilykja, o Gud! kann, ej jordin, hús né stadir, himnanna enginn himin vann, þig, himna taka Fadir! alla hluti þú ætlad sjer, einninn þann sofnud, sem ad

hér, þig dýrkar, þig ákallar; vor hjörtu bljúg sig hefja nú, himnanna til, hvar sjálfur þú, drottnar um aldir allar.

2. Í nafni Jesú oss lít á, eptir hans fyrirheitum, hús þetta blessa, heyr oss þá, hér þinnar nádar leitum. Hér heyrum vér þitt heilagt ord, hér setjumst vér vid Jesú bord, hér dygdir helgar lærum; þú, Fadir! rétt oss þína hönd, þinn andi styrki vora önd, ad gódann ávöxt færum.

3. Margur, sem hrigd í brjósti ber, hvörn huga mótgángs hleckir, athvarfs leitar og hjálpar hér, hans mædu best þú þeckir; leid hann, o Gud! af ángist út, og lát hvörn þann, er þjakast sút, frelsis stund finna þína; svo hann med gédid gladt á ný, gángi mustéri sjálfs þíns í, þacklæti þér ad sýna.

4. Þig bidjum vér í þessum stad, þú, Fadir allra þjóda! vort blessa land og vernda það, veit því frid og heill góda, í nafni Jesú oss heyr þú, í nafni Jesú von og trú, á hans ord ætíd festum: ad þú oss heitir, Herra! hér, hvörs í hans transti bidjum vér, og oss er æ fyrir bestu.

5. Á sídan, Gud! med engla her, um eilífd samstemmandi, fegri loffaung vér

færum þér, á farsældarinnar landi, þar fáum vér þig sjálfann sjed, og Son þinn Jesúm Kristum med, sem megum vin vorn kalla, þar géfur þú oss frid og frægd, fögnud vegsemd og gæda nægd, Drottinn! um eilífd alla.

---

## 11. Fridar-Salmur.

### No. 322.

Lagid: Herra! þér skal heidur og lotning greida;

Bjódid lof þeim böl'og neyd afvendti, burt er strid, sem oss med naud umspennti, bæna gádi, grimd afmádi, Gud alrádi, og sína nád oss sendi.

2. Herrañ ædsti hýr oss gaf, ad fridur, frá himni sté til vorra landa nidur, hann oss kjætir, hvad sem mætir, hrigd upprætir, barn adgætir, er bidur.

3. Gud! med lotning þér sé þöck vor samin, þinn lofstýr um öll heims löndin framinn; þig, er gridin, gæfu lidid, gafst og fridinn, einn tilbidjum, Amen!

12. Hugg-

## 12. Huggun í Sjúkdomi.

### No. 323.

Lagid: Af djúpri hrigd ákalla'eg þig.

Eg farsæld lífsins ádur sá, á mínum gledidøgum, ókal gladværdir átti'eg þá, í eptirlætis høgum; vil eg því nú veikleika med, vardveita jafnan rósamt géd; þó særist sorgar sløgum.

2. Eg má syndara aumayn mig, ó Gud! fyrir þér játa; óhlýdinn er eg þrátt vid þig, þú agar samt í máta; skal eg sekadur eckért þá, álag tímanlegt borid fá, og mig leidrétta láta!

3. Fadir! mig allann fel eg þér, forsjón þín ad mér gæti; hvørt sem þú lengra lénar mér, líf, eda heli'eg mæti, á þér einum skal allt mitt traust, ásjá á annaña' eg trúi láust, þú hjálpar, huggar, kjætir.

4. Eg þá trúadur út af dey, erfd mín er viss á hædum, mitt andlát því eg óttast ej, ellegar grafar hrædu; og þó eg ráfi'um daudans dal, Drottiñ! nád þiñ eg treysta skal; þú ert hjá mér í mædum.

5. Harma-tølum skal hrinda frá, en heidur Gudi veita, med þolinmædi honum hjá, hjálpar og nádar leita. Jafnan

í naudum hugsa hér, hvørsu líkusamur Drottinn er, hann einn kann øllu ad breyta.

## 13. Vid Kirkjugang Mædra eptir Barnburd.

### No. 324.

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Lof, dýrd um aldir alda, o Gud! þér sýngjum vér, þygg lofgjord þúsundfalda, þú veikum miskun tjer! oss þegar ángur skér, í fødur umsjón tekur og aldrej burtu rekur, þá sem ad treysta þér.

2. Hættar þrautir sem þjádu, þær hvursu, gleymdist hver, og yndæl ord vidqvádu: einn madur fæddur er, arftoku von sem á, í ìýrdar ríki ædstu; o von, án líka, stærstu! hverfa burt hrigd øll má.

3. O! vor Gud! veit hvør módir, vél børn uppali'um heim, ávertir ydju gódir eilífd-farsæli þeim, upp þá risin af grøf, til gledi, gladvær segi: Gud! hér er eg og þegin, af þér hin góda gjøf!

## 14. Á Fæðingar-degi Manns.

### No. 325.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Fyrir mitt líf eg þacka þér, á þessum degi' er gafst þú mér, Gud! þér eg gofgun færi, ad þín nád til þess þóckn-un bar, þad eg af engu skaptur var; líf mitt sú nádin nærir.

2. Undarlega þú um mig bjóst, vid umsjón þína fram eg dróst, ad augna-bliki þessu; gledidag margann gafst þú mér, grátur og þjáníng umbreytt er, í farsæld, frid og blessun.

3. Overdugann medkenni' eg mig, margfaldrar nádar lífs um stig, o! þú allsherjar Herra! mig, jardar duptid! minntist á, í mildi þinni eilífd frá, svo farsæll fengi' eg vera.

4. Þú sást og heyrdir mædu mín, mín andvorp taldi forsjón þín, fyrr enn eg skapnad fengi, minn deildann verd útmældir mér, miklu fyrr enn eg beiddi hér, þá eg var enn þá enginn.

5. Þú létst mig fyrir þér finna nád, frá eilífu þín vitsku dád, synd alla sá þó

mína. O! elsku'og náð, þá aumum mér, allrar veraldar Herra tjer! o Fadir! forsjón þína.

6. Ad lífid mitt adgættir þú, ad lífs og heill hér stend eg nú, ad lífs ánægju' eg smacka, ad undarlega' útleiddir mig, og híngad til um gæfu stig, þér, Fadir! allt eg þacka.

7. O Gud! ef lifa lengur á, leggdú mér til þad gagna má, af þér eg vona þessa. Eg líf og sál' afhendi þér, æ Herra! vyrdstú líkna mér, vernda mig best og blessa.

## 15. Ferda-Salmar.

### No 326.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

O þú Guds barna geymarinn! sem greidir inn- og út-gáng minn, í nafni þínu nú vil eg, nádþursi birja ferdaveg. O Drottinn! bjód þú Englum þín, á leidinni þeir gæti mín.

2. O Drottinn! vyrdstú ad mér gá; Drottinn! leid mig til og frá; hönd þín mig verndi hvar eg fer, háskanum vísi burt frá mér; o Drottinn! skildú ej vid mig, einka forunaut kýs eg þig!

3. O Drottinn! geym mitt megn og mál, minn líkhams krapt og veika sál', húsid líka og heimkynnid, holla vini, sem skilst eg vid, gættú þeirra og géf mér þá, glada og heila aptur sjá.

4. O Drottinn gódi! annast þú, áformid minnar reisu nú, taktú mig ad þér trútt og vel, tilsjón þinni mig allan fel, slisförum öllum varna vid, vertú minn Gud á alla hlid.

5. O Drottinn! eign mín æfinleg! af þér lifi og hræríst eg, fyrir mig Jesús útgaf önd, af því leid mig vid sterka hönd, einkum nær eg skal falla frá, farsæla reisu géf mér þá.

---

a.) Vid Húsfödurs lánga Burtferd.

No. 327.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

Þú þeckir, Gud! vort áform allt, og vorn fótstig þú greidir, ydn góda blessar eiñ ávallt, allt stydur, verndar, leidir; eg byrja ferd, en bid: ad þú, blessir mitt áform líka nú, háskasemd allri eydir.

2. Géf heilsa, þol og heill frá þér, hjá mér á vegum búi, svo hagsæld fiñ'eg hvar eg fer, og heim med gladværd snúi, um

votn og land mót voda hag, vertú minn skjøldur nótt og dag, eg þinni tilsjón trúi.

3. Ástvini mína ej forlát, þú ert minn og þeirra Fadir, heimkynni mínu haf á gát, hvad sem mér úthlutadir, heimafólk, eignir, ástand, líf, almættis þinni fel eg hlíf, géf aptur finnumst gladir.

4. Eg svo í fridi reisi rór, ræki mitt kall med dádum, og held til baka, hitti frór, hús mitt gladur í nádum, og ásamt mínum eptir þad, eg þig prísa og dáist ad, þinni vernd, þínum rádum.

---

## b.) Vid Húsfødurs Apturkomu.

### No. 328.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Mitt hús enn stendur, þøck sé þér, þú, Gud! sem geymdir mitt hvad er; margur heimkominn hús sitt fann, hrapad, velbyggt sem qvaddi hann, en stormur, vatnsflód, eldur braut, ørsnaudur svo hann ráfa hlaut.

2. Þú heyrdir, Drottinn! þad eg bad, þá eg og mínir skildumst ad, þú hefir vardveitt þá og mig, þín nád oss fylgdi mildilig, ferd mína hefir framad þú, sinn eg allt skadlaust heima nú.

3. O Gud! Verndarinn! eg þig bid: oss hér stamvegis haldtu vid, ad med fridsemi, eins og ber, umgángast mættum gladir vér, og lifa þar til æfin dvin, í bæn og trú og von til þín.

4. Oll vor fótspor og allann hag, annist þín forsjón nótt og dag, þín hönd oss leidi, Herra kjær! hvar sem vér gaungum, nær og fjær, og géf sídast ad sælir vér, samfögnum upp í dýrd hjá þér.

## 16. Vid opinbera Aflausn.

a.) Fyrir:

Nádugi Gud! fyrir nafnid þitt, (8da vers af No. 138.)

b.) Eptir:

Minn Gud! eg má þad játa, (sjá No. 145.)

## 17. Vid Lika Uthafningar.

### No. 329.

Lagid: Þann signada dag vér sjáum nú einn.

Dagur svo lángur aldrei er, ad ei med qvøldi lendi, daudinn lífid dregur med

 sér,

sér, dapur í burt úr hendi, vér skulum út, en grøfin er gjør, þar géfst ej annar endi.

2. Gud géfi þad svo þjónum vér, í þessari veröld inni, ad Guds Son med trúnni taki hverr, svo traustlega miskun finni; þá heimurinn frá oss hallar sér, hjálp Guds aldrejí linni.

3. Nær førum vér í vort Fødurland, og úr fárinu skulum venda, géf eg mína sálu Gud' í hønd, í gledi himnaríkis senda. Gud Fadir, Guds Son, Guds heilagur Andi, géfi' oss gódann lífs enda!

Lof sé Gudi! vor lausn er gjørd. (sjá No. 92, 2ad, 4da og 5ta vers.)

## No. 330.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Yndlegann styrk mér auktú þá, o Gud! nær veröld skilst eg frá, svo géd-rór mína géfi' eg ønd, gódi Fadir! í þína hend; hørmum mínum í huggun snú, og himninum fyrir mér uppljúk þú!



Ne-

# Registur
yfir Sálmana, eptir Stafrofs röd.

Heims-

O Je-

## Merk:

Hvar * stendur vid Sálm, teiknar: ad sá se gamall, standi ecki Høfunds hans, eda Utleggjara nafn þar vid, er það vegna þess, ad þetta er ecki fullkunnugt Utgefurum Sálmabókarinnar; en standi þessara nøfn stammstefud vid stjørnuna, merkir: ad þeir samegjnlega hafi honum breytt; ef ad eins annars: ad sá hafi þar ad

helzt unnid. Annars merkja skammstafanir vid Registrid fylgjandi Skálda nøfn, sem Sólmana hafa upprunalega qvedid, útlagt eda lagad, nefnilega:

A. J. Arnór Prófast Jónsson, Prest til Vatnsfjarð.
B. Gr. Assessor Benedikt Grøndal.
Chr. J. Christján Prófast Jóhañsson Prest til Stafh.
E. J. Einar Prest Jónsson, til Fellsmúla.
E. S. Einar Prófast Sigurdsson, Prest til Eydala.
G. Sn. Gunnlaug Prest Snorrason, til Helgafells.
G. V. Geir Biskup Vídalín, Riddara af Dannebroge.
H. P. Hallgrím Prest Petursson, til Saurbœar á Hvalfjardarstrønd.
H. R. Hálfdán Prest Rafnsson, til Undirfells.
J. E. Jón Sýslumann Espólín, í Hegraness Sýslu.
J. H. Jón Prest Hjaltalín, til Breidabólstadar á Skógarstrønd.
J. O. Jón Prófast Ormsson, til Saudlauksdals.
J. Th. Jón Prest Þorláksson, til Bœsár.
M. St. Dr. Magnús Stephensen, Conferenceráð og Justitiarium.
O. E. Odd Biskup Einarsson, í Skálholti.
S. J. Sigurd Prest Jónsson, til Prestbóla.
St. J. Stein Biskup Jónsson, á Hólum.
St. O. Stephán Prófast Olafsson, Prest til Vallaness.
Th. B. Þorvald Prófast Bødvarsson, Prest til Holts í Gnundarfirdi.
Th. J. Þórarinn Prest Jónsson, til Múla.
Th. St. Þorvald Prest Stephánsson, til Hofs í Vopnafirdi.
Th. Sv. Þorstein Prest Sveinbjarnarson, til Hrauneyrar og Bœar Þínga.

# Misprentanir.

Blſ. 6, línu 7, hèr, les: her. Blſ. 15, l. 12, kjærlek, l: kjærleik. Þar og l. 18, blíða, l: þýða. Blſ. 28, l. 20, hatt, l: hátt. Blſ. 29, l. 1, vottin, l: vottinn. Blſ. 41, l. 10, Gudſku, l: Gæðſku. Blſ. 57, var, l: varð. Blſ. 131, l. 2, gætum, l: gètum. Blſ. 138, l. 3, lík, l: lif. Blſ. 154, l. 17, ſálujálpar, l: ſáluhjálpar. Blſ. 156, l. 18, fram, l: fram. Þar og, l. 22, athvarſ, l: athvarf. Blſ. 180, l. 24, hèr, l: her. Blſ. 198, l. 2, megal, l: medal. Blſ. 204, l. 11, Eſ, l: Ef. Blſ. 220, l. 11, horeg', l: hvørg'. Blſ. 223, l. 1, liſir, l: lifir. Blſ. 302, l. 10, hugarhægar, l: hugarhægdar. Blſ. 306, l. 24, aſ, l: af.

## I Viðbætirnum.

Blſ. 16, línu 20, þáð, les: það. Blſ. 31, l. 23, aſtrſki, l: áſtríki.



